# Verkalýðsblaðið

4. tölublað 10. árgangur 27. apríl 1981 Verð kr 4.oo


*Leiðari: 1. maí ávarp:*

## Baráttustefna, verkalýðsflokkur og sósíalismi

Kommúnistasamtökin eru nýleg og lítil samtök sem berjast fyrir sósíalísku Íslandi - þjóðfélagi þar sem verkalýðurinn ræður ferðinni í bandalagi við annað vinnandi fólk. Samtökin vilja um leið stuðla að stofnun stjórnmálaflokks verkalýðsins sem getur tekið upp fallið baráttumerki og staðið í fremstu röðum baráttu fyrir umbótum og sósíalisma.

Margt fólk hefur fengið nóg af vinnuþrælkun, hamagangi, lágu kaupi, spillingu og óráðsíu í íslensku þjóðfélagi. Það er líka þreytandi að hlusta á loforð og horfa á moðreyk borgaralegu stjórnmálaflokkanna fjögurra Stóru orðin eru svikin oftar en ekki og ætíð eru til torskildar útskýringar á árásum á alþýðu manna og vörn fyrir "athafnamennina". Í starfi sínu dregur enginn flokkanna fjögurra í efa að auðsöfnun af annarra vinnu er réttmæt eða stendur við stefnuskrá um réttlæti, jafnrétti og fagurt mannlíf. Allir taka þeir einhvernveginn undir áróðurinn um að atvinnuvegir þoli ekki frekari útgjöld, ríkið hafi ekki efni á betri þjónustu og að undirrót verðbólgu sé önnur en gróðasókn atvinnurekenda.

Með eða án stjórnarþátttöku flokka sem hafa skipt forystu fyrir verkalýðshreyfingunni milli sín tekst valdastéttinni yfirleitt að halda kjörum í íslensku lágmarki og veifa réttarbótum sem þarf að kaupa með kjararáni. Talnaflóð á að sanna að kauprán sé lítið. En bókhald alþýðuheimila segir annað.

Völd flokksþjóna í alþýðuhreyfingunni hafa fælt fólk frá henni og þau eru líka notuð til þess að brjóta á bak aftur tilraunir til baráttu og kæfa gagnrýnis- og óánægjuraddir. Félagar í BSRB fá ekki að greiða atkvæði um stórbreytingar á samningum, bankamenn eru frystir úti í verkfalli og fóstrum er mætt með þögn "alþýðuvinanna". Og nú samþykkir formannaráðstefna ASÍ umboðslaust að veita 5o manna nefnd umboð til að útbúa kröfur í næstu samningalotu. Félagsfundir fá ekki að móta kröfurnar og samningamakkið verður bak við lokaðar dyr.

Íslensk verkalýðshreyfing er bandingi fjögurra flokka og þar verður að gera byltingu ekki síður en í þjóðfélaginu - byltingu fólksins.

Nú á 1. maí teljum við kommúnistar rangt að verkalýðssinar sem vilja baráttustefnu, í stað stéttasamvinnu og undanlátsemi, þurfi allir að játast undir sósíalisma. Andófsöflin eru svo sundruð og veik að núna er mest framför fólgin í samstöðu þeirra um mikilvæg fagleg og pólitísk mál eða kröfur. Kommúnistasamtökin börðust fyrir einum verka-

framhald á síðu 3

# 1. MAÍ

## Fundur Kommúnistasamtakanna og Verkalýðsblaðsins 1. maí

Kaffiveitingar

Ávörp

Skemmtiefni

„Amerískt uppboð"

Kl. 16.00

í Kaffiteríunni í Glæsibæ

## KJÖRORÐ KOMMÚNISTASAMTAKANNA 1. MAÍ 1981:

STÖÐVUM KAUPRÁNIÐ — FULLAR VÍSITÖLUBÆTUR!

LÍFVÆNLEG LAUN FYRIR 40 ST. VINNUVIKU!

LÆGRI SKATTA Á ÞURFTARLAUN!

LÍFVÆNLEGAR ATVINNULEYSISBÆTUR HANDA ÖLLUM!

6 MÁN. FÆÐINGARORLOF — NÆGAR DAGVISTIR!

ENGA SKERÐINGU VERKFALLS- OG SAMNINGSRÉTTAR!

HÖFNUM STÉTTASAMVINNU — AUKIÐ LÝÐRÆÐI Í VERKALÝÐSHREYFINGUNNI!

UMHVERFISVERND — VINNUVERND!

VERJUM OG AUKUM EFNAHAGSLEGT SJÁLFSTÆÐI LANDSINS!

TIL BARÁTTU GEGN BÁÐUM RISAVELDUNUM!

STYÐJUM FRELSISBARÁTTUNA Í AFGANISTAN, EL SALVADOR, PÓLLANDI, KAMPÚTSEU OG VÍÐAR!

ÍSLAND ÚR NATO — HERINN BURT!

ÖFLUGAR ALMANNAVARNIR!



# Stundakennarar H. Í.: Fyrstu lotu lokið

VIÐTAL VIÐ PÉTUR RIDGWELL, STUNDAKENNARA VIÐ HÍ:

VBL: Hvernig standa málin nú, þegar verkfallinu hefur verið aflétt?

Pétur: Segja má að útkoman sé skref í rétta átt, þrátt fyrir að stundakennarar misstu tökin á samningamálunum undir lok verkfallsins. Þeir létu hafa sig til að aflétta verkfallinu án þess að fullnægjandi trygging fengist fyrir því að ráðuneytið setti ekki aftur einhliða reglur um kjör þeirra. Hefðu menn verið ívið meir vakandi og hlustað betur á rödd minnihlutans meðal stundakennara, þá hefði þetta skref e.t.v. orðið mun stærra, en ráðuneytismenn settu gífurlega pressu á okkur undir lokin. Það er ótrúlegt hvað þessir menn eru leiðinlega útsmognir í samningamálum - enda atvinnumenn í því fagi.

VBL: Hvað vannst í þessari lotu?

Pétur: Núverandi reglur um kjör stundakennara falla úr gildi við lok þessa misseris og nú þegar verður gengið til viðræðna um nýjar reglur. Ljóst er að þær verða settar fyrir byrjun næsta misseris - að öðrum kosti fara menn varla að kenna aftur næsta haust. Þar með er þó ekki sagt að ráðuneytið hafi viðurkennt rétt stundakennara til íhlutunar um eigin kjör, en það varð að aðalkröfu okkar í rás þessara atburða. Þessar viðræður eru nefnilega ekki samningaviðræður, hið háa ráðuneyti hefur aðeins samþykkt að hafa samráð við okkur. Ef þessar viðræður sigla í strand mun ráðuneytið setja sínar reglur sem áður.

VBL: Ber mikið á milli?

Pétur: Óhemjumikið. Sá kjarni stundakennara sem hefur töluverðan hluta, eða allar tekjur sínar, af háskólakennslu - um 5o-loo manns - mun ekki þola það til lengdar að vera tekjulaus 26 vikur á ári. Mér er sagt að ég eigi ekki rétt á atvinnuleysisbótum þá 6 mánuði sem ég er tekjulaus. Samt þyrfti ég að vinna mikinn hluta þessara "atvinnuleysis" mánaða í kennsluundirbúningi og rannsóknum, ef allt ætti að vera með felldu. Það gefur auga leið að maður gerir það ekki, og kennslan verður því ekki sem skyldi.

Þetta er gömul saga - vísindastofnun þjóðarinnar í fjársvelti og haldið gangandi með ódýru vinnuafli, á kostnað rannsókna og gæða kennslunnar. Skilningur ráðuneytismanna á þessu ástandi á eftir að breytast mikið, áður en viðunandi niðurstaða fæst.

-/ess.

# Karl Steinar: Fiskmatsmál í ólestri



Í 2. tbl. Verkalýðsblaðsins á þessu ári birtist grein með fyrirsögninni "Misferli á Suðurnesjum?" Þar var þeirri spurningu varpað fram hvort að við mat á fiski hjá Hraðfrystihúsi Keflavíkur ætti sér stað misferli, þannig að fiskur sem metinn er í 3. flokk við skipshlið sé pakkaður inn og frystur og síðan metinn af matsmanni frystihússins sem 1. flokks vara.

Verkalýðsblaðið hefur reynt að afla frekari upplýsinga um þetta mál. Jóhann Guðmundsson hjá framleiðslueftirliti sjávarafurða kannaðist ekkert við málið. Hann sagðist ekki hafa lesið greinina í Verkalýðsblaðinu og vildi ekki segja neitt um málið fyrr en hann hefði séð greinina. Framleiðslueftirlit sjáfarafurða ber ábyrgð á fiskmati í landinu þannig að um alvarlegt mál er að ræða fyrir stofnunina ef fótur er fyrir þessum fregnum.

Blaðið hafði einnig samband við Benedikt Jónsson forstjóra Hraðfrystihúss Keflavíkur. Hann kannaðist heldur ekkert við málið. Togarar frystihússins hefðu ekki verið óeðlilega lengi úti í neinum túr í vetur, en í fyrrnefndri grein var talað um að lélegur fiskur úr löngum túrum hefði e.t.v. valdið röngu mati. Venjan hjá frystihúsinu væri sú að 2. og 3. flokks fiskur færi í skreið eða saltfisk en væri alls ekki frystur og sendur á Bandaríkjamarkað. "Það væri það síðasta sem við myndum gera" sagði Benedikt.

Karl Steinar Guðnason, formaður Verkalýðs- og sjómannafélags Keflavíkur sagði hins vegar að fiskmatsmálin væru í miklum ólestri. Hann sagðist vita mörg dæmi um undarlegt fiskmat og nefndi að síldarbátur nokkur hefði komist í síldar torfu, sem var of stór fyrir hann og fengið annan bát til. Bátarnir hefðu farið með þennan fisk, úr sömu torfunni, á tvær hafnir en síðan fengið mismunandi verð í sitt hvorri höfninni.

Aðspurður að því hvort VSK hefði aðhafst eitthvað í málinu sagði Karl Steinar að þessi mál hefðu verið til umræðu í sjómannasamningunum og yrðu það áfram. Reynt yrði að fá leiðréttingu á þessum málum þar.

Frá Ísafirði fréttum við að rækjusjómenn séu óánægðir með fiskmat í rækjunni. Þar virðist stefnan sú að rækjusjómenn fái lágt verð fyrir rækjuna en frystihúsin þeim mun hærra fyrir selda vöru. Raunvirði rækjunnar komi því ekki til sjómannanna, heldur til frystihússins.

Spurningin í þessum málum er sú hvort að fiskmati eða fiskverði sé hnikað til þannig að peningar sem eiga að lenda í vösunum á sjómönnum lendi í kassa frystihúsanna. Verkalýðsblaðið mun á næstunni birta fleiri greinar um þessi mál. Við yrðum þakklát ef lesendur, sérstaklega sjómenn, hefðu samband við okkur ef þeir vita eitthvað um þessi mál.

ÁDJ.

# Sjálfstæðisflokkur skrifar kommúnistum

Hvað gerist þegar miðstjórn Sjálfstæðisflokksins leggur höfuð sín í bleyti? Ekki mikið mundu margir segja, og nefna til dæmis um það leiftursóknir út í bláinn og vonlausa stjórnmálaaðstöðu þess hluta flokksins sem er í stjórnarandstöðu.

Það gerðist heldur ekki mikið þegar miðstjórnin tók afstöðu til bréfs nokkurs sem Kommúnistasamtökin sendu þeim og öðrum stjórnmálasamtökum. Í þessu bréfi var lagt til að stofnuð yrði samstöðunefnd ef svo færi að Sovétríkin réðust inn í Pólland. Miðstjórnin sendi okkur eftirfarandi svar:

Til framkvæmdanefndar miðstjórnar Kommúnistasamtakanna:

Miðstjórn Sjálfstæðisflokksins hefur fjallað um erindi yðar og er sammála um að samstarf við yður um málefni þau er þér nefnið í bréfi yðar komi ekki til álita. Vill miðstjórnin benda yður á að vandi Póllands nú á einmitt rót í kommúnistisku stjórnarfari landsins og því lítillar hjálpar að vænta Póllandi til handa frá kommúnistum og stjórnmálahreyfingum þeirra.

Sjálfstæðisflokkurinn tekur nú, sem fyrr eindregið undir frelsisbaráttu kúgaðra þjóða bæði í Afhghanistan og Póllandi og sendir yður að gefnu tilefni nýsamþykktar ályktanir flokksins um málefni þessara landa.

Virðingarfyllst,
Kjartan Gunnarsson,
framkvæmdastjóri.

Við viljum benda miðstjórn Sjálfstæðisflokksins á að þrátt fyrir að við séum hræðilegir kommúnistar þá styðjum við einnig baráttu Pólverja og Afghana gegn Sovétríkjunum af heilum hug. Á þeim grundvelli tókum við þátt í aðgerðum til að mótmæla innrás Sovétríkjanna í Afghanistan með Heimdalli og virtist þar sem almennar skoðanir okkar á samfélagsmálefnum stæðu ekki í vegi fyrir samstöðu. Margir þeirra sem berjast gegn Sovétríkjunum í Afghanistan og gegn flokksvaldi og innrásarhættu í Póllandi eru sama sinnis og við kommúnistar, en það aftrar ekki Sjálfstæðisflokknum frá því að styðja fortakslaust frelsishreyfingar þær sem þetta fólk er hluti af. Við viljum einnig benda enn einu sinni á að við teljum ekki þjóðskipulag Austur-Evrópubúa eiga neitt skylt við sósíalisma.

Ef sjálfstæðisflokkurinn vill vera samkvæmur sjálfum sér ætti hann að bæta í ályktanir sínar svohljóðandi klausu: "Við styðjum ekki þá aðila í frelsishreyfingum kúgaðra kommúnistaþjóða sem kalla sig kommúnista eður sósíalista, heldur aðeins þá sem vilja koma á raunverulegu vestrænu lýðræði hjá sér.". En kannski er til of mikils mælst.

Hvort sem ósamkvæmni miðstjórnar Sjálfstæðisflokksins stafar af gáfnaskorti eða einhverju öðru, þá hljótum við að fordæma þetta svar. Hver hefur annars séð ályktanir frá Sjálfstæðisflokknum um stuðning við frelsisbaráttuna í El Salvador?

ÁDJ.

**Verkalýðsblaðið**

Útgefandi: Kommúnistasamtökin
Ritstjóri: Ari Trausti Guðmundsson (ábm)
Aðsetur: Frakkastígur 14 (í húsnæði Októberbúðar)
Opnunartími: kl. 15-17 á þriðjud. og 16-18 á fimmtud.
Sími: 29212
Pósthólf: 5186 125 Reykjavík
Gírónr.: 12200-9
Prentað í prentsmiðju blaðsins

# Fiskur til Færeyja — atvinnuleysi á Grenivík

Menn eru löngu hættir að kippa sér upp við sífelldar uppsagnir starfsfólks í frystihúsum í "öryggisskyni". Öryggið er öryggi þess sem hirðir gróða af annarra vinnu og sér fram á hráefnisskort. Þá er um að gera að þurfa ekki að borga kauptryggingu og gefa skít í þá sem bjarga verðmætum vikuna á eftir.

Á Grenivík við Eyjafjörð er verið að byggja upp stórt frystihús og látið viðgangast að tveir litlir bátar sjái því fyrir afla með afkomu verkafólks að veði. Á sama tíma er svo verið að kaupa togara í Húnaflóann sem vinnur aflann um borð vegna þess að heimafrystihúsið annar varla aflavinnslu úr skipum sem fyrir eru.

Til að kóróna stjórnleysið og óráðsíu auðskipulagsins, er togari úr næsta firði, Skagafirði, látinn sigla með afla til sölu í Færeyjum – í von um örlítinn aukagróða meðan ekki er hægt að þræla fólki hraðar út á Sauðárkróki – í nafni samvinnuhreyfingarinnar.

Skyldi stjórnkerfi verkafólks geta skipulagt veiðar, vinnslu og útgerð af meiri skynsemi en stéttarandstæðingarnir?

-agé.

# Úr starfinu

Lokadrög nýrrar stefnuskrár Kommúnistasamtakanna liggja nú fyrir og birtast í lesbók þessa tbl.

Undanfarnar vikur hafa samtökin haldið nokkra félagsfundi, m.a. um 1. maí og verulegur áhugi reyndist fyrir því að ná saman einni breiðri stéttabaráttusamfylkingu til vinstri við fulltrúaráðsaðgerðir í R.vík. Félagar úr KS. munu kalla saman almennan fund Sameiningar 1.maí (áður Samfylking 1. maí) 25. apríl og ganga frá þátttöku sameiningar í aðgerðum dagsins í R.vík. Í því sambandi er unnið að því að fá hingað fulltrúa Solidarnocz og KOR frá Póllandi.

Um hingaðkomu Afganans frá þjóðfrelsisfylkingu landsins er enn allt á huldu en ekki hefur það þó verið gefið upp á bátinn.

Kommúnistasamtökunum bárust kveðjur og þakkir fyrir veittan stuðning frá Fóstrufélagi Íslands og er ljóst að fóstrur hafa fengið stuðning margra aðila og er það vel.

24.4. - t.

## *Baráttustefna, verkalýðsflokkur og sósíalismi*

framhald af forsíðu

lýðssinuðum aðgerðum 1. maí að þessu sinni með því að reyna að koma á samvinnu á jafnréttisgrunni milli Samfylkingar 1. maí (með aðgerðir í fyrra), Rauðrar verkalýðseiningar (með aðgerðir í fyrra) og fólks úr stéttarfélögum og félagsstjórnum. Rauð verkalýðseining bauð upp á stuðning við sínar aðgerðir og taldi ekki koma til mála að halda ekki uppi öllum kröfum sem hún telur þurfa, þ.á.m. um sósíalismann og brottför AB úr ríkisstjórn.

Kommúnistasamtökin munu því styðja aðgerðir "Baráttugöngu launafólks 1. maí", í R.vík 1. maí 1981, og halda eiginn baráttufund að þeim loknum.

Á 1. maí minnumst við samstöðu með kúguðum og arðrændum um allan heim og baráttunnar fyrir sjálfræði ísl. þjóðarinnar. Risaveldin traðka á mannréttindum og þjóðfrelsi og hafa Sovétríkin verið þar í stórsókn undanfarin ár, en Bandaríkin fyrst nú að ná sér eftir áföllin 1970-1975. Mikil hætta er á heimsstyrjöld og þá árásum á Ísland sem liggur mitt á milli risaveldanna og er aðsetur NATO. Hér getur ísl. alþýða og ísl. stjórnvöld lagt lóð á vogaskálar baráttu fyrir friði og sjálfsákvörðunarrétti þjóða.

Árið 1981 er ár fatlaðra. Þeir og aðrir hópar sem eru misrétti beittir vegna þjóðfélagsstöðu sinnar og óréttlátrar gróðahyggju eiga miklu meiri stuðning skilið: Konur, aldraðir, börn og unglingar eða einstæðir foreldrar.
1. maí er líka þeirra dagur.

Kommúnistasamtökin.
Verkalýðsblaðið.

# Atvinnulíf á Ísafirði

Á Ísafirði eru framleidd gífurleg útflutningsverðmæti. Stór hluti bæjarbúa vinnur hörðum höndum við þá framleiðslu. Á Ísafirði eru 3 stór og mjög fullkomin frystihús, 4 rækjustöðvar, stórt netagerðarverkstæði, skipasmíðastöð og talsverður verkstæðisiðnaður, sem að mestu þjónar útgerð og fiskvinnslu. Gerðir eru út 4 skuttogarar og einir 30 bátar, flestir litlir.

Þjónusta við almenning er af skornum skamti á mörgum sviðum og margt, sem fólk sækir til Reykjavíkur. Uppbygging dagheimila, sjúkrahúss og dvalarheimilis aldraðra gengur hægt á meðan atvinnurekendur fjárfesta grimmt.

Frystihúsin bera höfuð og herðar yfir önnur fyrirtæki hvað stærð og vald snertir. Þó er ekki hægt að þekkja eigendur þeirra og forráðamenn frá öðru fólki vegna þess að þeir berist mikið á, búi flott o.s.frv. Hingað til hefur gróðinn að lang mestu leyti farið í uppbyggingu fyrirtækjanna. Flest þetta fólk byrjaði með 2 hendur tómar og vinnur jafnvel enn hörðum höndum. Þeir koma yfir leitt vel fram við starfsfólkið í daglegri umgengni og fólk lítur almennt ekki á þá sem stéttarandstæðinga. Það er hins vegar spurning, hvort fólk sé farið að velta fyrir sér hvernig þessi mál muni þróast þegar þessi kynslóð atvinnurekenda fer undir græna torfu og erfingjar og alls kyns sérfræðingar taka við völdunum.

Fólk virðist almennt gera sér betur grein fyrir því kúgunarvaldi, sem situr í Reykjavík og gengur undir nafninu einokunarauðvald hér í Verkalýðsblaðinu. Undir því ægivaldi eru bæði verkafólk og þorri atvinnurekenda á Ísafirði, þó í misríkum mæli sé.

Bónuskerfið hefur nú verið við lýði á Ísafirði í 2 áratugi. Fyrir utan það að magna þreytu og vöðvabólgu verkafólksins hefur það bætt tekjur þess nokkuð. Hins vegar hefur það bætt afkomu frystihúsanna verulega. Munar þar mest um stóraukna nýtingu hráefnis, tækjabúnaðar og húsnæðis. Án bónuskerfis hefði þurft að byggja stærri hús og kaupa meiri tækjabúnað til að anna sama magni af fiski. Þessi aukagróði hefur að mestu farið í að byggja ný og rúmgóð hús og búa þau fullkomnum tækjum. Síst ber að lasta það.

Hin sorglega staðreynd er hins vegar sú, að verkafólkið ræður eftir sem áður engu um reksturinn og kann það að koma því í koll síðar. Það kemur reyndar skýrt í ljós hver er húsbóndinn á heimilinu í hvert sinn sem samningar eru á dagskrá. Þá hentar ísfirskum atvinnurekendum stundum vel að skýla sér á bak við einokunarauðvaldið í Reykjavík. Það kom skýrt fram í sjómannaverkfallinu fyrir ári síðan.

Gróði frystihúsanna fer nú ekki síst í að auka hagræðingu og tæknivæðingu, m.a. tölvutækni. Við það aukast afköst hvers starfsmanns. Hins vegar eru ekki horfur á verulegri aflaaukningu. Sumir forsvarsmenn frystiiðnaðarins telja, að starfsfólki í þeirri grein muni ekki fjölga og jafnvel fari því senn að fækka. Þá vaknar sú spurning, hvort þeir reikni nokkuð með því að stytta vinnudaginn og minnka það mikla vinnuálag, sem nú er á fólkinu. Stóra spurningin er, hvort tækniframfarirnar komi almenningi til góða, eða hvort þær muni aðeins skapa atvinnuleysi og kjararýrnun fjöldans og ofboðslega eignamyndun fárra.

Það er ekki vanþörf á, að verkafólk í frystiiðnaði og verkalýðsfélög þess fari að ræða þessi mál í fullri alvöru nú, þegar við stöndum augliti til auglits við tölvubyltinguna svonefndu.

ÞÖÁ.




# Af starfi SHA

KEFLAVÍKURGANGA 16. MAÍ

7. maí næstkomandi eru 30 ár liðin frá því að bandarískt herlið steig hér á land í annað sinn. Herliðið er hér ennþá eins og öllum er kunnugt.

Í þessi þrjátíu ár hefur andóf gegn herliðinu og veru Íslands í NATO staðið linnulaust. Og enn hugsa herstöðvaandstæðingar sér til hreyfings.

7. maí er fyrirhuguð mótmælastaða við bandaríska sendiráðið á vegum Samtaka herstöðvaandstæðinga.

9. maí verður skáldavaka og 16. maí munu herstöðvaandstæðingar ganga frá Keflavíkurflugvelli til Reykjavíkur.

Margar Keflavíkurgöngur hafa verið farnar áður. Þær sýna það fylgi sem málstaður herstöðvaandstæðinga hefur, þó að það sé langt frá því að allir herstöðvaandstæðingar taki þátt í þeim.

Í heimi vaxandi vígbúnaðar og aukinnar stríðshættu er meiri þörf á öflugri baráttu herstöðvaandstæðinga. Nú mega andstæðingar hernaðarbröltsins ekki sitja heima. Oft var þörf en nú er nauðsyn.

Fyrir allar þessar aðgerðir vantar sjálfboðaliða. Þeir sem veitt geta aðstoð, litla sem mikla, eru beðnir að hafa samband við skrifstofu SHA, Skólavörðustíg 1 A, 2. hæð milli kl. 15 og 18. Síminn er 17966.

Hafst.

# Helguvík og flugstöðin



Á vonin um að allt geti farið vel og hlutleysisyfirlýsing að duga gegn þessum herrum? Eða eru þeir kannski hættulausir? (NTB-mynd)

**Málefnasamningur ríkisstjórnarinnar sneiðir snyrtilega framhjá öryggismálum Íslands. Alþýðubandalagið er nú orðið í klemmu af þessum sökum og margur herstöðvaandstæðingurinn sér fyrir sér svikin kosningaloforð. Forysta AB hefur tekið þann kost að einhenda flokksvélinni um tíma á hermálin til að "bjarga andlitinu" á þeim tíma sem þau eru í brennidepli vegna vaxandi stríðshættu.**

Hentistefna?

AB og Kommúnistasamtökin eru sammála um úrsögn úr NATO. Gott er það. En gagnrýni er líka góð (þó svo að KS hafi ekki hreinan skjöld). Það var hentistefna að taka þátt í stjórnarmyndun er ljóst var að stjórnin myndi enga stefnu hafa í öryggismálaaðgerðum á kjörtímabilinu. Sú hentistefna endurspeglast núna í skeytingarleysi AB um stefnumótun í öryggismálum, umfram það að vera á móti NATO-framkvæmdum í landinu. Andstaða AB (og KS) við þær kemur ekki ein í veg fyrir stríð næstu ár. Og hvað ef það skellur yfir?

Það er tímanna tákn að nokkrir forystumenn AB eru farnir að líkja risaveldunum saman og hætta að láta sem Bandaríkin ein ógni heimsfriði og sjálfræði þjóða. En það er hentistefna að taka ekki tillit til aðstæðna í heiminum, taka virka afstöðu gegn Sovétríkjunum og fá afstöðuna til risaveldanna rædda í flokknum (í alvöru).

Ruglandi.

Einhverjir AB menn hafa fundið ný höfuðrök gegn hersetunni í öllum bægslagangi flokksins. NATO-stöðvarnar hér gegna nú "breyttu hlutverki" og bent er á ný tæki. Herstöðvaandstæðingar tyggja svo gagnrýnislaust sama bitann. Rökin standast ekki. Fyrstu Phantom-þoturnar komu 1972 og 73 og aukin hæfni nýrrar útgáfu frá 1978 (en sami fjöldi) breytir ekki hlutverki stöðvarinnar hér. Eldri Orion-vélarnar gátu borið sömu vopn og þær nýrri. Sprengiheld skýli skipta ekki máli ef flugvöllur er eyðilagður. Hlustunarkerfið í sjó er tæknileg nýjung en orðið margra ára gamalt sem heild. AWACS-vélarnar eru núna könnunarvélar (en geta verið stjórnstöðvar í stríði) og leystu gamlar LOCKheed-vélar af hómi en eru sjálfar leystar nú af hómi með Grumman-vélum, sem ekki geta verið stjórnstöðvar. Og kjarnorkuárás á Keflavík eða önnur árás hefur vofað yfir árum saman.

Að manni hvarflar að það séu fremur stundarhagsmunir AB og atkvæðaveiðar forystunnar sem valda því hvenær mál eru tekin fyrir og hvað sagt, en þénustan við alþýðuna. Vissulega hafði AB (eins og KS og aðrir flokkar) gendarlausa fáfræði um her- og öryggismál sér til afsökunar, en ekki lengur. Fyrirlitning á vopnum og kúgunarhernaði réttlætir ekki fáfræði um hvorutveggja, eða ruglanda um staðreyndir.

Berskjaldað land.

AB ætti að taka undir með KS þegar félagar okkar reyna að afhjúpa stríðs- og varnaráætlanir NATO sem gagnslitlar fyrir Evrópu og heimta íslenskar almannavarnir. Afhjúpunin jafngildir ekki kröfum um meiri NATO-viðbúnað. En það þarf að gera þá að herstöðvaandstæðingum sem ekki eru það - með staðreyndum. Og um fram annað má ekki leiða hjá sér allt annað en úrsögn úr NATO og gera fólk bjargarlaust með kjanorkugrýlunni, þótt hún sé til.

En því miður segja Samtök herstöðvaandstæðinga, AB og hinir flokkarnir ekkert um almannavarnir, ekkert um hvernig halda eigi þjóðinni gangandi í stríði, ekkert um hlutverk landsmanna ef á landið er ráðist o.s.frv. Hér sleppir eiginlega hentistefnunni og fíflskan tekur við.

Á fundi Sjálfstæðisflokksins um öryggismál nýverið, settu Geir og aðrir þau öll í hendur NATO án þess að vita nokkuð um varnaráætlanir þess í landinu. Tveir erlendir gestir Varðbergstrúarflokksins lyftu ekki hlulunni, enda um að gera að vekja engar efasemdir eða vilja til sjálfbjargar meðal Íslendinga.

Á baráttufundi SHA 29. og 30. mars sl. í R.vík var ekki minnst einu orði á þessi mál og Sovétríkin, sem þá voru tilbúin til innrásar í Pólland, voru nefnd einu sinni.

Á móti.

Kommúnistasamtökin vilja að menn hafi samkvæma afstöðu gegn báðum risaveldunum og stefnumótun í íslenskum varnarmálum. Um leið eru þau á móti stækkun orkugeymarýmis í Keflavík, en hlynnt mengunarvörnum. Þau styðja andstöðu AB og annarra gegn flugstöðinni eins og að henni er staðið og afnotum NATO af henni. En vissulega þarf að bæta aðstöðu millilandaflugsins. Rúmgóða en einfalda flugstöð geta ísl. stjórnvöld látið byggja eins og hafnir og hafnaraðstöðu í landinu.

-agé



Hvað eiga þessir menn að gera ef til stríðs kemur?



Eru öryggismál Íslands í höfn ef þessir NATO-dátar eru sendir heim til sín? (NTB-mynd)

*Seðlabankinn:*

# Véfréttin hefur talað

Það voru tíðindi, heillin.

Hvað myndir þú segja ef Jóhannes Norðdal, Seðlabankastjóri tilkynnti að lausn verðbólgunnar fengist með því að stöðva verðhækkanir, endurskipuleggja framleiðsluna, festa gengið, útiloka gróðasöfnun og fjárhættuspil og tryggja öllum lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku?
Þú teldir Bankann genginn af göflunum og byltingu í nánd.

Nú er þessi verðbólgulausn uppspuni en eitthvað í sannleiksátt samt. Því miður fer Seðlabankinn aðrar leiðir. Ræða Seðlabankastjóra á 20. ársfundi bankans í apríl er ísl. efnahagsstefna í hnotskurn. Þar talar hinn skynsami fulltrúi kapítalsimans. Við skulum því ekki láta ræðuna sem vind um eyru þjóta.

Orsök verðbólgu.

Það er gömul saga að valdastéttin skuli sífellt káfa utan í einkenni verðbólgunnar en ekki orsakir. En þær verða ekki ljósari nema með því að greina verðbólguna með marxisma og þeim verður ekki útrýmt nema með sósíalisma. Meginorsökin er nefnilega sókn kapítalista í hámarksgróða og samkeppni fyrirtækja - sjálfur grundvöllur auðskipulagsins. Ræða Jóhannesar fjallar um allt annað. Hann getur um 150% hækkun olíuverðs frá árinu 1978, en gleymir að geta þess að hún stafar að mestu af verðhækkunum olíuauðhringanna, en ekki OPEC-ríkja. Flestir hringanna stórgræddu umrædd ár. Hann getur um sveiflur á fiskverði erlendis og getur þess ekki að ein orsök þeirra var undirboð kanadískra samkeppnisfyrirtækja á bandaríska markaðinum.



Hinn skynsami fulltrúi kapítalismans og sérfræðinga valdsins.

Og í stað þess að minnast á sífelldan þrýsting útflutningsfyrirtækja á lækkun gengis og þrýsting atvinnurekenda innanlands á hærra verð vöru og þjónustu, gerir hann víxlhækkun launa og verðlags að orsök verðbólgu. Það skín í gegn að þar séu það heldur ekki verðkröfur gróðaaflanna sem teljist óréttmætar - heldur ósvífnar kjarakröfur.
Hvað er enda eðlilegra en að atvinnurekandi haldi útgjöldum í horfinu?

Jóhannes klykkir út með því að segja: "Kaupmáttarskerðing ein nægir ekki til verðbólguhjöðnunar" (samt í áttina). Hann vill stöðugra gengi. En segir ekki hvernig.

Þversagnir.

Þjóðarframleiðslan 1980 jókst um 2,5%, framleiðsla sjávarafurða jókst um 10% (verðmætin um 16,5%), önnur iðnframleiðsla um fáein % og heildarfjárfesting um 2%. Um leið rýrnuðu viðskiptakjör um 2% (eldsneytið vegur þungt), kaupmáttur um 2% (oflágt reiknað) og erlendar skuldir jukust í 35,1% þjóðarframleiðslu. Hér eru maðkar í mysunni og fullt af þversögnum.

Að hætti stéttarbræðra sinna reynir Jóhannes að "útskýra burt" þversagnirnar og fela óréttlætið, með frösum eins og "óraunsæir kjarasamningar, olíuverðhækkanir og lítið aðhald í peningamálum". Í raun réttri hafa fiskvinnsluhringarnir og stærri útgerðar- og iðnfyrirtæki aukið gróða sinn 1980. Og hliðarverkunum er síðan mætt með því að klípa af kjörum launafólks og láta það blæða fyrir viðskiptahallann (með því að tengja við hann vístölubætur á laun), fyrir samdrátt (landflóttinn) og verðbólguna (lækkun kaupmáttar). Jóhannes gleymdi líka að

framhald á síðu 9

# LESBÓK 2




Hér færð þú lesandi góður, í hendurnar 2. tbl. Lesbókar Verkalýðsblaðsins. Að þessu sinni er meginefni hennar stefnuskrárdrög Kommúnistasamtakanna. Þau eru birt hér til kynningar og umræðu. Lesbókin og blaðið eru opin fyrir umræðuskrifum og gagnrýni frá öllum lesendum og eins eru samtökin reiðubúin að halda umræðufundi um stefnuskrána með þeim er þess óska. Efni sendist í pósthólf blaðsins en fyrirspurnum má beina til ritstjórnar VBL eða annara talsmanna Kommúnistasamtakanna.

Annað efni Lesbókar er framhald greinar um "Dauðastríð Maóismans og verkefni kommúnista". Fyrri hluti hennar var í 1. tbl Lesbókarinnar. Aðrar greinar verða því miður að bíða næstu Lesbókar í júní.

-ritnefnd.

# Drög að stefnuskrá Kommúnistasamtakanna

SAMIN AF NEFND Á VEGUM STJÓRNAR SAMTAKANNA.

Kafli 1.

## FRÆÐIKENNINGAR OG STARF

Fræðikenning kommúnista á uppruna sinn í hugmyndum um félagslegt og pólitískt réttlæti.
Saga undanliðinna alda er saga um arðrán manns á manni og stríð manna og þjóða í millum. Orsök þessa er að finna í óréttlátri skiptingu efnalegra gæða og valdatafli ríkjandi stétta. Hinir eignalausu - í þeim skilningi að þeir eiga engin framleiðslutæki, en reiða sig eingöngu á eigið vinnuafl sér og sínum til framfæris - eru meirihluti þjóðanna, en njóta ekki meirihlutaréttar því réttur auðs og hervalds er drottnandi.
Fræðikenning Marx og Leníns byggir á sögulegri greiningu þjóðfélagsþróunar og skýrir þau öfl er ráða um stefnu þjóðfélaganna. Kenning Marx og Leníns gengur út frá þeirri staðreynd að þjóðfélög hvorki breytast né byltast án tilverknaðar manna. Því gerir kenning þeirra ráð fyrir meðvituðu starfi að þeirri umbyltingu samfélagsskipulagsins, sem nauðsynleg er, svo réttlát skipan komist á.
Réttlæti og réttlát skipan þjóðfélags er tvennt ólíkt ef horft er annarsvegar af sjónarhóli ríkjandi auðstéttar og hins vegar af sjónarhóli alþýðunnar. Því er barátta fyrir réttlæti og þjóðfélagi, sem lætur alþýðuna njóta þess sem hún skapar með vinnu sinni, stéttabarátta. Viðhorfin eru ólík eftir því frá hvaða stétt séð er.
Allt starf kommúnista verður að taka mið af stéttarlegum viðhorfum hinna vinnandi stétta. Á þann hátt einan er starf kommúnista framsækið og í þágu þess samfélags sem vinnandi stéttir munu byggja upp á rústum hins borgaralega samfélags þegar það hefur gengið sér til húðar.
Allt starf kommúnista verður ennfremur að taka mið af sérkennum þess þjóðfélags sem fyrir er. Að öðrum kosti verður það líflaus eftirlíking þess sem gert er í öðrum löndum og hemill á framsækna þróun.
Fræðikenning og starf mynda með skapandi víxlverkun sinni, þá fjöldastefnu, sem fær er um að nýta alla tiltæka krafta við umbyltingu samfélagsins. Hvað náðst getur fram á þann hátt eru ferskust dæmi um frá Maó Tse-Tung og flokki hans í Kína. Þeirra árangur náðist ekki með eftiröpun, heldur með því að taka mið af aðstæðum í eigin landi. Við skulum því aðeins líta í kring um okkur, áður en lengra er haldið.

Kafli 2.

## ÞJÓÐFÉLAGIÐ SEM VIÐ BÚUM Í

Ísland er háþróað auðvaldsríki.
:: Á um einni öld hefur íslenska þjóðfélagið breyst úr bændasamfélagi í þróað auðvaldssamfélag. Með því er átt við að framleiðslan í þjóðfélaginu er vöruframleiðsla fyrir markað, þar sem eignar- og ráðstöfunarréttur yfir vörum og framleiðslutækjum er tryggður tiltölulega fámennri stétt borgara.
:: Atvinnureksturinn er í öllum meginatriðum skipulagður til að afla auðstéttunum gróða.
:: Sterkustu vígi borgarastéttarinnar eru annars vegar auðhringarnir, sem hafa víðtæk völd bæði efnahagsleg og stjórnmálaleg og hins vegar ríkisvaldið (ríkisstjórn og embættismenn, alþingi, dómstólarnir), sem tryggir völd borgarastéttarinnar yfir gróðalindum sínum og þar með áframhaldandi völd í skjóli auðs og þjóðfélagsstöðu.
:: Þróunarstig íslenska auðvaldssamfélagsins er stig einokunar og heimsvaldastefnu. Umtalsverður hluti íslensks auðmagns er innan vébanda fárra einokunarauðhringa. Þegar auðhringur nær að einoka verulegan hluta íslenska markaðarins eru vaxtarmöguleikar á þrotum og flytja verður út auðmagn til þess að hringurinn eigi möguleika á frekari þenslu. Þannig reka íslenskir auðhringar framleiðslu- og þjónustustarfsemi erlendis og græða fé á vinnu alþýðu annarra landa. Þess háttar auðmagnsútþensla er í eðli sínu heimsvaldastefna.

Ísland er stéttskipt þjóðfélag.
:: Ísland er stéttskipt þjóðfélags með þremur aðalstéttum, -verkalýðsstétt, borgarastétt og millihópum smáborgara.
:: Höfuðmóthverfa þjóðfélagsins, þ.e. helstu andstæðingar, er borgarastéttin og verkalýðsstéttin.
:: Grundvallarmóthverfa þjóðfélagsins er launavinna og auðmagn, þ.e. annarsvegar félagsleg skipulagning framleiðslunnar og hinsvegar einkaeignarréttur á framleiðslunni og framleiðslutækjunum.

Ísland er verkskipt þjóðfélag.
:: Verkskipting í íslensku athafnalífi hefur aukist óðfluga og gert störf verkalýðs fjölskrúðugri. Starf sem fyrrum hafði að geyma marga ólíka þætti greinist nú í mörg störf er hvert um sig tekur til eins eða fárra þátta.
:: Verkskiptingin útheimtir bæði aukna almenna menntun verkalýðs og sérhæfða menntun. Þannig starfar nú sérhæft og vel menntað verkafólk við framleiðslu á ýmsum sviðum beint og óbeint.

Ríkisvaldið.
:: Samkvæmt hefð er ríkisvaldinu skipt í þrennt: Löggjafarvald, sem er Alþingi. Dómsvald, sem eru dómstólarnir. Framkvæmdavald, sem er ríkisstjórn og undir henni embættiskerfið og sveitastjórnir.
:: Þetta þríeina kerfi ríkisvaldsins vinnur á einn veg, þ.e. til viðhalds ríkjandi skipulagi. Stéttarafstaða þess kemur fram í löggjöfinni, dómstólarnir kveða upp stéttardóma og framkvæmdavaldið vinnur samkvæmt hagsmunum ríkjandi stéttar.
:: Stéttareinkenni ríkisvaldsins eru óháð flokkslegri samsetningu ríkisstjórna og Alþingis á meðan þjóðfélagsskipulagið er óbreytt. Auðvaldsskipulagið vinnur sem slíkt gegn hugmyndum flokka og manna, enda þótt þeir sitji í ríkisstjórn og á Alþingi, ef þær brjóta í bága við hagsmuni auðvaldsins.

Umbótabarátta í auðvaldsskipulaginu.
:: Hagsmunir hluta borgarastéttarinnar og vinnandi fólks geta farið saman að einhverju leyti og málefnum sem eru til hagsbóta fyrir vinnandi fólk er oft ráðið með innanstéttarátökum í borgarastéttinni. Slíkt breytir ekki valdahlutföllum í þjóðfélaginu, en bætir engu að síður hag vinnandi fólks og á sinn þátt í skilyrðum til breyttra valdahlutfalla í þjóðfélaginu.
:: Í baráttu fyrir umbótum er nauðsynlegt að geta sagt fyrir um þróun ólíkra hagsmunahópa innan borgarastéttarinnar. Vinnandi fólk getur þá sett fram kröfur og þrýst á um uppgjör og umbætur. Oftast kemur í kjölfarið að reynt er að hirða ávöxt umbóta, sem fást á einu sviði, á öðrum sviðum.
:: Umbótabarátta er nauðsynleg og kommúnistum ber að styðja slíka baráttu. Í henni eru fólgnir hagsmunir vinnandi fólks og hún færir því reynslu, hún afhjúpar auðvaldið og skýrir þær takmarkanir sem umbótabaráttan er háð ásamt nauðsyn byltingarsinnaðrar baráttu.

Byltingarbarátta í auðvaldsskipulaginu.
:: Skipulagi arðráns og óréttlætis, auðvaldsskipulaginu, verður ekki velt úr sessi með atkvæðagreiðslu, heldur stéttaátökum.
:: Stéttarlegt vald borgarastéttarinnar á sér þrjár rætur: 1) Sögulegar rætur. Borgarastéttin var byltingarstétt lénska þjóðskipulagsins og brautryðjandi nýrra framleiðsluhátta. Hún var til áður en verkalýðsstéttin leit dagsins ljós.
2) Efnahagslegar rætur. Borgarastéttin ræður auðmagni þjóðfélagsins og notar það til að viðhalda valdastöðu sinni og þjóðfélagsstöðu. 3) Hugmyndalegar rætur. Hugmyndir ríkjandi stétta eru ríkjandi hugmyndir. Til viðhalds þeim hefur borgarastéttin skapað sér öfluga aðstöðu á sviðum uppfræðslu og fjölmiðlunar.
:: Stéttarlegt vald verkalýðsstéttarinnar er fólgið í : 1) Þeirri sérstöðu hennar að vera framleiðandi auðæva sem borgarastéttin slær eignarhaldi sínu á. Hún er því engum háð á meðan borgarastéttin er háð vinnandi verkalýð. 2) Einingu um hag stéttarinnar. Eining samhentrar verkalýðsstéttar getur staðið af sér allar atrennur valdatækja auðvaldsins.
:: Hlutverk byltingarsinnaðra kommúnista er að auka stéttarvitund og einingu verkalýðsstéttarinnar og treysta bönd hennar við samherja meðal alþýðunnar og skapa þannig forsendur þess að stéttarlegu valdi borgarastéttarinnar, bæði sögulegu, efnahagslegu og hugmyndalegu verði hnekkt í stéttabaráttunni.

Kafli 3.

## STARFSHÆTTIR KOMMÚNISTA

Í íslensku þjóðfélagi gefast næg tækifæri til hverskyns baráttu fyrir hagsmunum og réttindum alþýðu manna. Einstaklingar, samtök og hagsmunahópar reyna baráttu og öðlast reynslu. Reynslan ein sér dugar skammt til ávinninga ef hún er ekki nýtt til þess að efla styrk og baráttuþrek alþýðunnar.

Nauðsyn samtaka.
:: Án samhæfðs og skipulagðs starfs verða minni breytingar og færri umbætur en ella.

Á Íslandi er stór hópur manna sem álítur það nauðsynlegt að fram fari virkt starf sem miðar að því, að á komist samfélagsskipan undir yfirráðum vinnandi fólks. Það er eðlilegt og nauðsynlegt að sem flestir úr þessum hópi myndi með sér samtök, sem ekki láta sér nægja að skipta sér af fáum afmörkuðum málum, heldur flestum eða öllum þjóðmálum. Styrkur þessara baráttufélaga er meiri í samtökum en samanlagður styrkur þeirra sem einstaklinga.

:: Samtök sósíalista og kommúnista hljóta því að vera stjórnmálaflokkur, þegar undirbúningi að stofnun hans er lokið. Undirbúningur flokksstofnunar er fyrst og fremst í því fólginn að sameina íslenska sósíalista og kommúnista í ein samtök, sem mynduð eru um sósíalískar hugmyndir marx-lenínismans.

:: Kommúnistasamtökin hafa sett sér það markmið að vera slík samtök. Starf þeirra miðast því einkum við undirbúning flokksstofnunar. Undirbúningsstarf flokksstofnunar er ekki úr tengslum við almenna stéttabaráttu heldur byggist á henni, því samtökin líta á stéttabaráttuna sem vettvang sameiningarstarfs sósíalista og kommúnista og baráttusinnaðrar alþýðu.

:: Hlutverk Kommúnistasamtakanna felst einnig í því að útbreiða og útskýra marxismann og þróa hann við íslenskar aðstæður.

Nauðsyn samfylkinga.

:: Kommúnistar líta svo á að eðlilegt sé að mörg baráttusamtök verði til í stéttabaráttunni um afmörkuð málefni. Kommúnistar og samtök þeirra munu eiga samvinnu við slíka baráttuhópa án skilyrða, enda séu hagsmunir alþýðunnar í fyrirrúmi.

:: Kommúnistasamtökin æskja samstarfs við önnur stjórnmálasamtök og einstaklinga um afmörkuð mál. Þau líta á slíkt samstarf sem mikilvægan þátt í að vinna hagsmunamálum alþýðunnar lið og til þess að efla umræðu og skoðanaskipti milli baráttusinna.

Starf kommúnista í málefnum verkalýðshreyfingarinnar.

:: Kommúnistasamtökin líta á félög verkalýðs og vinnandi alþýðu sem mikilvægustu fjöldasamtök íslenskrar alþýðu.

:: Verkalýðsfélögin eru til orðin svo launafólk geti barist fyrir afkomu sinni í markaðsþjóðfélagi auðvaldsins. Í þeirri baráttu telja kommúnistar að ekki þurfi að gæta hagsmuna neinna annarra en launafólks. Þeir vísa á bug skoðunum um að "þjóðarhagur" sé hafinn yfir hag verkalýðsstéttarinnar.

:: Kommúnistar munu ætíð hvetja vinnandi alþýðu til að beita samtakamætti sínum til fullnustu kröfum hennar.

:: Innan verkalýðshreyfingarinnar berjast kommúnistar gegn stéttasamvinnustefnunni og fulltrúum hennar. Stéttasamvinnustefnan veikir slagkraft hreyfingarinnar og þjónar andstæðingum hennar.

:: Uppbygging verkalýðshreyfingarinnar er þunglamaleg og ólýðræðisleg. Í skjóli þessa þrífst stéttasamvinnustefnan. Kommúnistar vilja beita sér fyrir lýðræði innan hreyfingarinnar og virkni almennra félaga í ákvarðanatekt og starfi. Verkalýðshreyfingin á að vera lifandi hreyfing fjöldans en ekki dauð stofnun.

:: Kommúnistasamtökin vilja beita sér fyrir því að alþjóðlegt stuðningsstarf og samvinna verði stóraukin. Kommúnistar líta svo á að stéttabaráttan hérlendis sé grein af sama meiði og barátta fólks í öðrum löndum og heimsálfum fyrir afkomu sinni og mannréttindum. Þess vegna ber okkur að taka afstöðu til fleiri mála en okkar brýnustu.

:: Kommúnistar hafa þá afstöðu, að verkalýðshreyfingin í sósíalísku þjóðfélagi skuli vera sjálfstæð, án formlegra tengsla við ríki eða flokka. Verkalýðshreyfingin á þar að hafa öll fyllstu réttindi sem við þekkjum til.

:: Kommúnistar verða að leggja sig fram við að vinna traust og stuðning óflokksbundins verkafólks og baráttusinna innan annara stjórnmálasamtaka í uppbyggingu sósíalismans.

Kafli 4.

## HEIMSVALDASTEFNA OG SJÁLFSTÆÐI

Heimsvaldastefna er ríkjandi þegar auðvaldsskipulagið hefur náð sínu efsta þróunarstigi - stigi einokunar. Þá er innanlandsmarkaður orðinn of þröngur til þess að frekari auðmagnsupphleðsla geti átt sér stað. Auðvaldið leitar því eftir markaði utan þjóðlegra landamerkja fyrir auðmagn sitt og tekur til við að arðræna alþýðu annarra landa.

Innbyrðis eru heimsvaldalöndin missterk. Því verða mörg hin smærri heimsvaldaríki fyrir meiri heimsvaldaásælni frá hinum stærri en þau sjálf hafa möguleika á að sýna öðrum. Þannig er heimsvaldaásælni Íslands smávægileg í samanburði við ásælni þá sem Íslandi er sýnd.

Þróun heimsmála.

:: Tvö ríki skera sig úr hvað styrkleika snertir á heimsmælikvarða. Bandaríkin og Sovétríkin bera ægishjálm yfir öll önnur ríki. Þessi tvö risaveldi eru hættulegustu óvinir alþýðunnar um allan heim. Þau eru mestu kúgunarvaldar, friðspillar, og yfirgangsríki nútímans. Þau eru alvarlegasta ógnunin við frið í heiminum og munu bera ábyrgð á nýrri heimsstyrjöld.

:: Bandaríkin voru áberandi voldugasta ríki veraldar um skeið og tóku sér hlutverk sem alheimslögregla og dómari. Frelsisbarátta alþýðu þriðja heimsins veitti bandarísku heimsvaldastefnunni öfluga mótspyrnu og stöðvaði frekari útþenslu að lokum. Eftir ósigurinn í Indó-Kína er barátta bandarísku heimsvaldastefnunnar til að verja stöðu sína meira áberandi en útþenslan. Engu að síður er bandaríska heimsvaldastefnan hættulegur óvinur alþýðu um allan heim og Bandaríkin áfram risaveldi.

:: Vegna andstöðu sinnar við bandarísku heimsvaldastefnuna voru Sovétríkin litin vinaraugum af frelsishreyfingum þriðja heimsins. Vinátta Sovétríkjanna reyndist alþýðunni dýrkeypt. Í kjölfar sigurs yfir bandarísku heimsvaldastefnunni sigldu Sovétríkin inn sem nýr herra. Hvarvetna þar sem sigur vannst með aðstoð Sovétríkjanna beið alþýðan einnig ósigur fyrir þeim sömu, Sovétríkjunum, sem reyndust þar úlfur í sauðargæru.

:: Nú eru Sovétríkin vaxandi og gráðugt heimsvaldaríki, risaveldi við hlið Bandaríkjanna. Gagnstætt Bandaríkjunum er útþensla sovésku heimsvaldastefnunnar meira áberandi en vörn eða undanhald.

:: Sá er munurinn á bandarísku heimsvaldastefnunni og þeirri sovésku, að hin fyrri er hnignandi en sú síðari vaxandi. Því ber alþýðunni um allan heim að skerpa árvekni sína gagnvart Sovétríkjunum og berjast gegn yfirgangi þeirra um leið og bandarísku heimsvaldastefnunni er haldið í skefjum.

:: Á milli risaveldanna tveggja og landa þriðja heimsins eru fjölmörg en misstór heimsvaldasinnuð ríki. Gagnvart risaveldunum mynda þessi ríki annarsvegar mótvægi gegn þeim og eiga hinsvegar samstöðu með þeim. Þau vilja halda sínum hlut gagnvart risaveldunum og um leið skipta þau sér á milli risaveldanna í innbyrðis ryskingum sínum.

Gagnvart þriðja heiminum er samstaða nokkur meðal minni heimsvaldaríkja.

Staða Íslands.

:: Ísland er eitt minnsta heimsvldasinnaða ríkið í heiminum. Landfræðileg staðsetning landsins er í víglínunni á milli risaveldanna tveggja. Pólitískt er Ísland í blokk ríkjandi bandarísku heimsvaldastefnunnar og þátttakandi í NATO. Íslendingar eru herlausir og landvarnalausir. Bandaríska herliðið á Íslandi er ekki varnarlið fyrir Ísland, heldur bandarískt varnarlið og hlekkur í vígvél bandarísku heimsvaldastefnunnar.

Á sama hátt og bandarísk og sovésk heimsvaldastefna er óvinur alþýðunnar um allan heim, þá eru risaveldin óvinur íslenskrar alþýðu.

Kafli 5.

## SÓSÍALISMI Á ÍSLANDI

Stjórnmálasamtök kommúnista eða sósíalista sem vilja standa undir nafni - og leysa aðsteðjandi vandamál líðandi stundar- verða að gera sér grein fyrir hvernig málum þarf að skipa í framtíðinni í grundvallaratriðum. Ef lokamarkmiðið er gleymt og grafið og öll hugsun slíkra samtaka beinist að daglegum vandamálum þá er leiðin stutt yfir í forarfen borgaralegrar umbótahyggju og endurskoðunarstefnu.

Viðfangsefnið.

Um er að velja tvær meginleiðir til að nálgast viðfangsefnið sósíalisma á Íslandi. Annars vegar að útlista nokkuð nákvæmlega hvernig



ríkisvaldi verður háttað, utanríkispólitík, verkefnum o.s.frv. Íslenskir kommúnistar hafa eins og raunar fleiri, yfirliett farið að á þennan veg. Hin aðferðin er sú að skoða framtíðarþjóðfélagið í ljósi líðandi stundar, minnug þess að framtíðin er barn nútíðarinnar, jafnframt því að kryfja fræðikenningar sósíalismans til mergjar í ljósi sögulegrar reynslu. Á venjulegu máli þýðir þetta að ekki sé reynt að skilgreina framtíðarþjóðfélagið heldur séu vandamál þess skoðuð í ljósi óleysanlegra og illleysanlegra vandamála líðandi stundar. Auk þess má heldur ekki gleyma því að kapítalisminn hefur ýmislegt til brunns að bera sem ekki er hægt að hafna með öllu.

Hvað er sósíalismi?

Með hugtakinu sósíalisma eiga kommúnistar gjarnan við millistig milli auðvaldskerfis og kommúnisma, þ.e. hins stéttlausa þjóðfélags framtíðarinnar. Á skeiði sósíalisma eru enn til stéttir og barátta milli þeirra um þjóðfélagsvöldin. Það er hins vegar verkalýðsstéttin sem er hin ríkjandi stétt, sem hefur forgöngu um að umbreyta þjóðfélaginu í átt til kommúnismans og stéttleysisins. Ýmsar leifar borgaralegs þjóðfélags lifa enn góðu lífi, fyrst og fremst þó borgaralegur hugsunarháttur og hugmyndafræði sem gerir megnið af daglegri stéttabaráttu að hugmyndabaráttu. Eignarréttur á framleiðslutækjum er enn til í sósíalisma en er ekki lengur í höndum fámennrar yfirstéttar heldur félagslegur. Ýmis borgaraleg ákvæði um vernd eignarréttarins eru enn fyrir hendi nema hvað þeim er nú snúið upp á sósíalismann.

Fræg er skilgreining Stalíns á efnahagslegum grundvelli sósíalismans: Fullnæging efnislegra og menningarlegra þarfa samfélagsins með óslitnum framvexti og framþróun sósíalískrar framleiðslu á grundvelli nýjustu tækni hverju sinni. Þetta setti hann fram í andstöðu við skilgreiningu sína á undirstöðulögmálum auðvaldskerfisins: Trygging kapítalísks hámarksgróða með arðráni á landslýð viðkomandi lands, ásamt þrælkun og kerfisbundinni rányrkju á þjóðum annara landa sér í lagi vanþróaðra og loks með styrjöldum og herváðingu þjóðarbúskaparins.

Stéttabarátta og sósíalismi.

Eitt fræðilegra afreksverka forráðamanna, bæði í Sovétríkjunum og Kínverska alþýðulýðveldinu, hefur verið að afneita tilvist borgarastéttar í löndum þessum. Útþurrkun hennar ku hafa átt sér stað með samnýtingu allra helstu framleiðslutækjanna (samnýting er hér notað yfir þá aðgerð þegar framleiðslutæki og eignir eru teknar og nýttar í þágu samfélagsins í heild, þjóðnýting fyrirtækja er kapítalískt fyrirbrigði). Með þessu á









sigur sósíalismans að hafa verið tryggður í eitt skipti fyrir öll. Hættan á endurreisn kapítalisma því aðeins til í kollinum á öfgaklíkum s.s. fjórmenningum.

Þessari skoðun höfnum við íslenskir kommúnistar. Þótt vel megi vera að hægt sé að afnema borgarastéttina í eitt skipti fyrir öll, þá verður sigur sósíalismans ekki tryggður fyrr en allar stéttir hafa verið afnumdar eða öllu heldur horfið, fyrr en munurinn á milli bæja og sveita og milli andlegrar og líkamlegrar vinnu hefur afmáðst. Bændastéttin og takmarkaður einkaeignarréttur í formi samyrkjubúa og samvinnustarfsemi svo ekki sé talað um smáeignamenn í bæjum, er og verður ætíð uppspretta nýrra borgaralegra afla sem með efnahagslegri og hugmyndalegri starfsemi getur vel kollvarpað stéttarveldi verkalýðsins og hugmyndalegu og pólitísku forræði kommúnistahreyfingarinnar.

Það má vel vera að Menningarbyltingin kínverska hafi leiðst út í öfgar. En grundvallarhugmynd hennar, að berjast gegn borgaralegum öflum sem hreiðrað hafa um sig í sósíalísku ríkiskerfi og kommúnískum flokki er enn gild.

Með kollvörpun auðvaldsþjóðfélagsins tekst kommúnistum að leiða verkalýðinn og alla alþýðu til pólitískrar og stéttarlegrar vakningar. En öreigabyltingin er aðeins áfangi á langri leið. Ef kommúnistar og verkalýðsstéttin sest þar með í helgan stein og lætur sér nægja efnahagslegar umbætur þá er hætta á ferðum. Stöðug pólitísk og hugmyndaleg barátta er lífsnauðsyn. Menningarbyltingar - samfara pólitískri vakningu meðal lýðsins - eru helsta sjáanlega tækið.

## Lýðræði og sósíalismi.

Hingað til hafa kommúnistar látið sér nægja að segja að lýðræði í sósíalisma sé í sjálfu sér tryggt, þar sem þá hafi meirihluti þjóðfélagsins, alþýðan, völdin.

Reynslan úr þeim löndum sem efnt hafa til tilrauna með sósíalisma sýnir þó að sjálfkrafa verður lýðræðið ekki tryggt.

Hér verða kommúnistar að taka mið af og læra af borgaralegu lýðræði, eins og það gerist best á Vesturlöndum, sér í lagi á Norðurlöndum.

Þetta er einstaklega mikilvægt fyrir íslenska kommúnista. Sósíalisma hefur hingað til ekki verið komið á í öðrum löndum en þeim sem hafa ekki haft neinar lýðræðishefðir til að byggja á.

Hornsteinar slíks lýðræðis eru prentfrelsi, ferðafrelsi, trúfrelsi, fundarfrelsi og frelsi til að bindast samtökum án afskipta ríkisvaldsins.

Kommúnistar hafa jánkað slíku frelsi - en bætt við: sé því ekki beint gegn sósíalismanum.

Þetta er í sjálfu sér mótsagnakennt. Skoðanafrelsi er með því takmarkað við þá sem samþykkja sósíalismann. Sumir eru jafnari en aðrir komst Orwell að orði svo fleygt er.

Þetta er líka í andstöðu við þá skoðun kommúnista að stéttabaráttan haldi áfram í sósíalismanum. Ef andstæðingum sósíalismans er meinað að tjá sig og bindast samtökum, þá sýnir sagan okkur að þeim er aðeins ein leið fær, þ.e. að hreiðra um sig innan stjórnmálaflokks kommúnista og samtaka alþýðunnar. Nauðsynlegum öryggisventlum er þar með lokað með ófyrirsjáanlegum afleiðingum fyrir framgang sósíalismans, og þetta er loks þverstæðukennt að því leyti, að það afneitar innri styrk kommúnistahryefingarinnar, og lítur svo á að valdataka verkalýðsins hafi meir stafað af röð tilviljana og happa en pólitískri og stéttarlegri hreyfingu meirihluta þjóðfélagsins.

Valdataka meirihlutans og uppbygging sósíalisma getur ekki grundvallast á öðru en ríkri pólistískri meðvitund alls fjöldans. Byggi hún á öðru, þá er leiðin til endurreisnar kapítalismans mörkuð.

Kafli 6.

## JAFNRÉTTISBARÁTTA - UMHVERFISVERND

Auðvaldsþjóðfélagið veldur margs konar misrétti vegna þess að þjóðskipulagið miðast við gróðasókn lítils minnihluta. Á suma þegna er litið sem varavinnuafl, á aðra sem óarðbæra þegna og félagsþjónusta yfirleitt miðuð við hagkvæmnina eina - jafnvel þótt annað sé látið í veðri vaka. Launafólk og hópar sem beittir eru misrétti hafa knúið fram réttarbætur og framfarir sem ella hefðu komið mun síðar. Kommúnistar vilja styðja baráttu þessa fólks.

Að auki fylgir auðskipulaginu mikil eyðilegging umhverfis okkar og tregða yfirvalda gegn því að búa fólki fullnægjandi umhverfi. Gróðurlendi er eytt, mengun látin viðgangast eða unglingum neitað um félagsaðstöðu vegna þess að talið er of dýrt að gera annað. En á þessu sviði eru líka framfarir augljósar - af sömu ástæðum og fyrr voru nefndar: Andstaða og kröfur almennings hafa knúið fram umbætur. Því verður að halda áfram.-

:: Konur búa ekki við jafnrétti á Íslandi. Konur úr röðum vinnandi alþýðu eru undirokaðar sem vinnuafl eða húsmæður. Almennt eru svo konur allra stétta kúgaðar sem kyn og er fjölskyldan sem efnahagseining grundvöllur þeirrar kúgunar.

:: Hugmyndafræði þjóðfélagsins kennir að konur hafi önnur hlutverk en karlar, hún er mjög blandin kynferðislegri niðurlægingu kvenna og hún kennir að konur séu varavinnuafl. Félagsþjónusta miðar heldur ekki að því að konur hafi sömu möguleika til náms og starfs og karlmenn og konum er iðulega mismunað í launagreiðslum.

:: Þátttöku kvenna í félagsstarfsemi er haldið niðri, jafnt í opinberri starfsemi sem í verkalýðshreyfingu og róttækum hreyfingum. Þessu ráða aðstæður, kvenfjandsamleg hugmyndafræði og ennfremur fordómar meðal róttækra afla. Eitt mikilvægasta skrefið til jafnréttis felst í baráttu fyrir aukinni þátttöku kvenna í hvers kyns félagsstarfi.

:: Jafnrétti karla og kvenna næst ekki innan auðvaldsþjóðfélagsins. Í sósíalísku þjóðfélagi eiga konur að bera hálft uppbyggingarstarfið á móti körlum og þar eru forsendur fyrir jafnrétti eftir því sem stéttskipting þurrkast út. Konur verða bæði að skipuleggja sig í samtökum sem berjast fyrir sósíalisma og í hvers kyns baráttusamtök innan auðvaldsskipulagsins til þess að vinna áfangasigra. Sérstakar kvennahreyfingar eru þar nauðsynlegar, því mestur þunginn í jafnréttisbaráttunni hvílir á konunum sjálfum.

:: Fjölmargir hópar berjast fyrir viðurkenningu á sérstöðu sinni, fyrir atvinnu, félagsþjónustu og húsnæði o.fl.: Aldraðir, fatlaðir, innflytjendur eða flóttamenn, börn og unglingar. Það er rangt að setja ábyrgð á stöðu þessa fólks á herðar einstaklinga, fjölskyldna eða áhugamannafélaga. Ríki, Reykjavíkurborg og bæjar- og sveitarfélög eiga að borga brúsann og viðurkenna helstu jafnréttiskröfur þessarra hópa þegar í stað.

:: Spilling umhverfis, mengun og rányrkja eru jafnan ekki hugdettur einstaklinga, heldur bein afleiðing af ófyrirleitinni gróðasókn og skammsýni sem er andstæð hagsmunum verkalýðs og annarrar alþýðu. Slíkt ógnar líka valdastéttinni sjálfri. Umhverfisvernd er miklu mikilvægari en íslensk stjórnmál bera vitni um.

:: Meginkröfum í umhverfismálum á að beina til opinberra aðila og fyrirtækjanna í landinu - þar liggur ábyrgðin og meginorsakir fyrir umhverfisvandamálunum.

:: Góða umhverfisvernd og skynsamlega nýtingu náttúruauðlinda er ekki unnt að tryggja í núverandi þjóðfélagi. Árangur er undir baráttu kominn og mun auðvelda alþýðu manna að tryggja umhverfisvernd í sósíalísku þjóðfélagi.

Kafli 7.

## HELSTU BARÁTTUMÁL Í DAGLEGRI BARÁTTU

Kommúnistar setja fram eftirfarandi kröfur og leggja áherslu á baráttu er tengist þeim. Þessi baráttumál eru:

### I. Í faglegri baráttu:

:: Gegn afskiptum ríkisvaldsins af kjarasamningum - stöðvum kaupránið.
:: Fullar verðbætur á laun - verkafólk ber ekki ábyrgð á verðbólgunni.
:: Gegn stéttasamvinnu - burt með afskipti ríkisvalds og þingsalaflokkanna af málefnum verkalýðshreyfingarinnar.
:: Aukið lýðræði í verkalýðshreyfingunni - meira vald til félagsmanna.
:: Lífvænleg laun fyrir 4o stunda vinnuviku - lægri skatta á þurftarlaun.
:: Fullur stuðningur við kröfur og baráttu farandverkafólks.

### II. Varðandi aðrar réttindakröfur alþýðu manna.

:: Félagslegar aðgerðir í húsnæðismálum. Stefna út frá raunverulegum þörfum almennings - raunverulegar aðgerðir til að létta skuldabyrði og auka fjármögnunarmöguleika húsbyggjenda - fjölgun leiguíbúða.
:: Fleiri dagvistarheimili og fleiri skóladagheimili. Bætt kjör og vinnuaðstaða fyrir fóstrur.
:: Sömu laun fyrir sömu vinnu, jafnrétti til náms og starfa.
:: Gegn niðurskurði á heilbrigðisþjónustu, bætt kjör öryrkja og aldraðra.
:: Gegn rányrkju, fyrir umhverfisvernd.

### III. Í utanríkis- og öryggismálum.

:: Ísland úr NATO - herinn burt. Gegn auknum umsvifum NATO á Íslandi.
:: Öflugar almannavarnir. Aukin viðbúnað gegn stríði.
:: Gegn erlendri stóriðju - fyrir efnahagslegu sjálfstæði Íslands.
:: Gegn stríðsundirbúningi risaveldanna.
:: Styðjum baráttu fyrir frelsi í Afghanistan, El Salvador, Póllandi og Kampútseu.

# Dauðastríð Maóismans og verkefni kommúnistahreyfingarinnar

Hér birtist síðari hluti greinar Arnórs Sighvatssonar. Fyrri hlutinn birtist í síðustu Lesbók. Þá urðu þau mistök, að þess var ekki getið að um framhald yrði að ræða, og er beðist velvirðingar á mistökunum.

Upphaf þeirrar kommúnísku hreyfingar sem sjálf hefur jafnan kennt sig við marx-lenínisma en aðrir við maóisma, er að leita í fjölskrúðugu litrófi þeirrar andófsbylgju sem varð meðal stúdenta í Vestur-Evrópu, Bandaríkjunum og víðar um miðjan 7. áratuginn. Ekki er hér staður né stund til að leggja mat á ástæður þeirrar bylgju , en Víetnamstríðið er þó augljós þáttur, enda var friðarstefna ríkur þáttur þessarar hreyfingar. Einnig hefur verið bent á tímabundið efnahagslegt kreppuástand sem orsakavald, en um gildi þeirrar ábendingar hef ég talsvert ákveðnar efasemdir, þó ég geri það ekki að umtalsefni hér.

Það að andófsbylgja 7. áratugarins var í megin atriðum bundin við háskólana og snerist að talsverðu leiti gegn borgaralegu hlutverki menntastofnana, skýrir það hvers vegna hluti róttækra stúdenta leitaði sér fyrirmynd í kínversku menningarbyltingunni. En það var fleira sem lagðist á eitt að gera kínversku menningarbyltinguna að þeirri fyrirmynd sem hún varð.

Svo var komið um miðjan 7. áratuginn að Sovétríkin höfðu að mestu leiti misst aðdráttarafl sitt meðal vesturlandabúa sem boðberi réttlátari þjóðfélagshátta. Atburðir þeir sem urðu á 2o. flokksþingi Kommúnistaflokks Ráðstjórnarríkjanna ásamt innrásinni í Ungverjaland og loks vorið í Prag 1968 - í miðju ölduróti stúdentabyltingarinnar - áttu þar drýgstan hlut að máli. Þar með hafði skapast tómarúm meðal róttæks fólks ; fólks sem hafði til að bera rótgróna andúð á ríkjandi þjóðfélagsháttum og byltingarástríðurnar samar við sig, en það skorti fyrirmynd - takmark. En við svo búið gat ekki staðið, og þeir voru margir sem urðu lærifeður "68" kynslóðarinnar; Marcus, Trotsky og Mao svo fáir séu nefndir.

Hér verður ekki reynt að gera skil þeim Markúsi og Trotsky þó slíkt sé ekki síður nauðsynlegt. Mao er guðfaðir þeirrar hreyfingar sem hér er til umræðu. Það er þó fjarstæða að kenna hana við Mao einan, því einnig Mao er fulltrúi ákveðinna hefða í sögu hinnar alþjóðlegu verkalýðs og byltingarhreyfingar sem verða samofnar hefðum og reynslu verkalýðsbaráttunnar í hverju landi. Það er reyndar dálítið skoplegt að kínverskur kennimaður skyldi verða einn helsti miðill baráttuhefða evrópskra kommúnistaflokka og verkalýðshreyfingar, meðal evrópskra ungmenna. En einmitt til þeirrar staðreyndar má að hluta til rekja þá togstreitu sem alla tíð ríkti meðal lærisveina Maós. Meðal þeirra gætti þrennskonar áhrifa: Í fyrsta lagi áhrifa frá róttækasta skeiði KOMINTERN. Frá þeim tíma er komið vígorðið Stétt gegn stétt og sá skilningur á sósíaldemókrötum að þeir væru pólitísk stoð og stytta auðvaldsins, (hér KSML í upphafi). Í öðru lagi gætti áhrifa frá samfylkingarskeiði KOMINTERN og loks áhrif og róttækni sjálfrar menningarbyltingarinnar. Þessi sumpart ólíku sjónarmið leiddu til þess að áhangendur Maós voru ævinlega margklofnir í ólík samtök og eru enn þó talsvert hafi verið grisjað í þeim fjölskrúðuga garði að undanförnu (hér mætti vissulega einnig geta vinslita Kína og Albaníu, en út í þá sálma verður ekki farið hér). Það er þó misskilningur að álíta sem svo, að sundrung og klofningur hafi verið meginhindrun þessara samtaka, nema að svo miklu sem hann endurspeglar þann hugmyndafræðilega veikleika sem stóð þeim helst fyrir þrifum: óljósum og óraunhæfum hugmyndum um gerð hins sósíalíska þjóðskipulags. Undirrót þessa veikleika liggur m.a. í trúnni á menningarbyltinguna og Kínverskan sósíalisma yfirleitt. Gleymum því ekki að kínverska menningarbyltingin var svar róttækra kínverskra kommúnista við þróun Sovétríkjanna, þar sem gjáin milli yfirvalda og almennings breikkaði stöðugt - tilvist nýrrar yfirstéttar var staðfest. Sömu augum litu maó-aðdáendur vesturlanda á menningarbyltinguna. Ekki aðeins sem jákvætt fyrirbæri, heldur beinlínis sem valkost gegn kapítalisma. Af þessum skilningi okkar á menningarbyltingunni standa nú aðeins eftir máttvana vangaveltur um það hvort menningarbyltingin hafi verið í höfuðatriðum jákvæð eða neikvæð. Niðurstaða þeirra vangaveltna skipta vitaskuld næsta litlu máli í samanburði við upphaflegan skilning okkar. Menningarbyltingin reyndist engan veginn sá bjargvættur sem við væntum og gildir þá einu hvort menn álíta hana jákvæða eða neikvæða í heild. Kjarni málsins er sá að hún bjargaði engu. Og þá hlýtur að vera tímabært að setja fram spurninguna: Ef ekki menningarbyltingu - þá hvað?

Sá hugmyndafræðilegi veikleiki sem ég nefndi á sér reyndar einnig aðrar og dýpri orsakir en þær sem liggja í menningarbyltingunni. Að nokkru má rekja hann til þeirrar fyrirmyndar sem rússneska byltingin varð evrópskum kommúnistum; fyrirmyndar sem mjög var fegruð, einkum eftir að þeirri frjálsu umræðu sem átti sér stað meðal rússneskra kommúnista fyrst eftir byltinguna var fargað fyrir flokkseininguna í byrjun 3ja áratugarins.

Þessi staða hafði tvo ókosti í för með sér. Í fyrsta lagi gerði þetta kommúnískri heimssýn sem tæki mið af bestu hefðum evrópsks lýðræðiskapítalisma erfitt uppdráttar. Í öðru lagi dró þetta evrópska kommúnista til ábyrgðar fyrir þá þjóðfélagsskipan sem þeir fengu engu um ráðið. Því var það að þegar brestir hins Sovéska skipulags urðu ljósir upp úr 1956 leiddi það til tómarúms sem ýmsir urðu til þess að reyna að fylla upp í, m.a. Maó.

## Paradísarheimt?

Margir hafa lagt land undir fót og borið niður á ólíklegustu stöðum í leit sinni að jarðneskri eða himneskri paradís. Sjaldan hafa þeir fundið þá paradís sem þeir leituðu að, en þá þeir hafa komist næst því hefur það oftast verið við túngarðinn heima. Af þessum orðum mínum má þó ekki draga þá ályktun að hið fyrirheitna land finnist við tærnar þar sem við stöndum - því þäð finnst ekki, (það sem hvorki er týnt né falið finnst ekki), það bíður enn sköpunar sinnar sem ekkert nema mannlegt afl, hugvit og kjarkur fær leyst af hendi. En að fótum okkar liggur efniviðurinn, fallnar hleðslur og óslegið engi.

Eitt er það sem hefur orðið þess valdandi að þróun Sovétríkjanna varð kommúnistahreyfingunni meira áfall en efni stóðu til, en það er nokkuð rík tilhneiging til ákveðinnar tegundar nauðhyggju. Slík nauðhyggja samofin talsverðri óskhyggju, hefur endanlega ofið þann blekkingavef sem nú verður að slíta. Nauðhyggja af því tagi sem ég hér hef í huga er byggð á frumstæðum og vægast sagt afar vafasömum skilningi á marxískum hygmyndum um þjóðfélagsþróun. Hún lætur að því liggja, að frelsun vinnunnar sé nánast óhjákvæmileg, vélræn afleiðing afnáms hins kapítalíska eignahalds og kollvörpunar þess ríkisvalds sem því þjónar, í stað þess að líta svo á að slík umbylting skapi skilyrði þessa meginmarkmiðs sósíalismanns.

Lenín barðist reyndar einarðlega gegn þeirri tegund nauðhyggju sem er hornsteinn kenninga um friðsamlega þróun til sósíalisma. En hér er ekki aðeins um umbyltinguna eina að tefla, heldur alla uppbyggingu eftirbyltingarþjóðfélagsins. Eins og Lenín barðist gegn þeirri kenningu, að þróun kapítalismans leiddi óhjákvæmilega og vélrænt til sósíalisma, verðum við að berjast gegn þeirri villukenningu að afnám kapítalísks eignarhalds leiði óhjákvæmilega og án átaka til þeirrar endurlausnar vinnunar sem er kjarni sósíalismans í marxískum skilningi. Marx setti aldrei fram skýrar hugmyndir um gerð þess þjóðfélags sem tæki við að loknu dauðastríði kapítalismans. Fyrir því kunna að vera tvær megin ástæður: Í fyrsta lagi gerði hann sér ljósa grein fyrir annmörkum nauðhyggju af því tagi sem hér hefur verið lýst. Þó svo að á endanum megi líta á framvindu sögunnar sem vitundarlaust fyrirbæri, gerist samt sem áður ekkert án vísvitaðrar fyrirætlunar - án markmiðs. Þó svo að líta megi svo á, að í sögunni ríki almenn lögmál, firrir það ekki hvern einstakling ábyrgð og hvern kommúnista þeirri skyldu að berjast fyrir markmiðum sínum. (Um skoðun M&E, sjá t.d. "Ludvig Feuerbach og endalok klassísku þýsku heimspekinnar", bréf frá Marx til Annenkoffs og bréf frá Engels til Blochs og til Schmidt í Úrvalsritum I). Í öðru lagi var sú reynsla sem á dögum Marx lá fyrir á sviði þjóðfélagslegrar, sósíalískrar tilraunastarfsemi afar takmörkuð, þó svo skammvinn tilvist Parísarkommúnunnar gæfi honum tilefni til talsverðra útlegginga. Síðan þá hefur mikið vatn runnið til sjávar. Fyrir liggur ríkuleg reynsla sem krefst endurmats fyrri hugmynda. Reynsla sem að verulegu leiti virðist neikvæð, án þess að það útaf fyrir sig sé tilefni nokkurrar svartsýni þegar allt er skoðað, því þrátt fyrir allt er þar enganveginn um neinn endanlegan áfangastað þróunarinnar að ræða, heldur aðeins nokkur tilbrigði við fáa af ótal möguleikum í þróun eftirbyltingarþjóðfélags sem takmarkast þó af sérstökum sögulegum, félagslegum og efnahagslegum skilyrðum.

Sú blekking að kollvörpun hefðbundins kapítalísks eignahalds leiði átakalaust til fullveðja sósíalisma, verður að víkja fyrir þeirri staðhæfingu að slík umbylting skapi aðeins skilyrðin fyrir þvílíka þjóðfélagsskipan. Í fljótu bragði kann að virðast sem svo, að hér sé aðeins um endurtekningu eða umorðun á kenningu Maós o.fl. um áframhald stéttabaráttunnar á skeiði sósíalismans að ræða. Svo er þó ekki. Maó er um of bundinn við þá hugmynd, að stéttabaráttan snúist einvörðungu um það að tryggja ávinninga byltingarinnar gegn óvinum sósíalismans og skriffinnum í valdakerfinu. Markmiðið verður hins vegar að vera; Stöðug barátta er miðar að því að gera verkalýðsstéttina og að lokum sérhvern hluta þjóðfélagsheildarinnar færan um að drottna yfir eigin örlögum. Þetta er vissulega ekki einfalt úrlausnar, allra síst í þeim ríkjum - þróunarríkjum, sem að miklu leiti eru þess vanbúin, að ala af sér sjálfbjarga sósíalisma. Og engum skyldi álasað fyrir annmarka þess sósíalisma, sem sprottið hefur úr skauti þeirra þjóðfélagshátta sem sjálfir eru ófullveðja að öllu leiti.

En kommúnistar vesturlanda geta ekki látið draga sig til ábyrgðar fyrir þá þjóðfélagsþróun sem þeir geta engu um ráðið þjóðfélagsþróun sem verður við allt önnur skilyrði en þeir sjálfir og þeirra fólk býr við. Þeir verða að hafa það hugfast, að evrópskur verkalýður mun tæpast gerast brjóstvörn í baráttunni fyrir þeim sósíalisma sem ekki veitir honum drjúgum meiri lífsfyllingu en lýðræðislegur kapítalismi vesturlanda einsog hann gerist skástur.

Ef þið lesendur góðir hafið gert tilraun til kommúnísks útbreiðslustarfs meðal almennings, hafið þið eflaust oftsinnis staðið andspænis áleitinni spurningu viðmælenda ykkar: Hvers konar þjóðfélag viljið þið byggja? Eins og Sovétríkin? Eins og Kína? Og ykkur verður fátt um svör, þó svo þið getið sagt margt um það hvers konar þjóðfélag þið ekki viljið. Alþýðan krefur okkur um skýr svör, og við verðum að svara, ella munu vígorð okkar falla dauð og ómerk í hugum þess fólks sem við höfðum til. Þeirri blekkingu verður að kasta útí hafsauga að í kommúnískri útbreiðslu nægi það eitt að ávinna sér traust fjöldans með góðu fordæmi og fórnfúsri baráttu til þess svo að leiða hann ... - ja hvert? Það er traust fjöldans á pólitískum markmiðum en ekki einstaklingum sem er afgerandi. Á því veltur framtíð hreyfingar okkar.

Febrúar 1981

Arnór Sighvatsson.

# Úrslit atkvæðagreiðslu í FBM eru áfellisdómur yfir ASÍ

Fyrir nokkru fór fram allsherjaratkvæðagreiðsla í hinu nýstofnaða Félagi bókagerðarmanna (FBM) um hvort félagið skyldi sækja um aðild að Alþýðusambandinu eða ekki.

Úrslit atkvæðagreiðslunnar urðu þau að af 592 sem greiddu atkvæði sögðu 386 nei en 180 já (auðir og ógildir voru 26).

Ljóst er að sá mikli meirihluti sem andvígur var aðild að ASÍ er mikill áfellisdómur yfir starfi og stefnu sambandsins á undanförnum árum. Ekki síst bera úrslitin vitni um álit almennra félagsmanna FBM (svo ekki sé talað um fleiri) á vinnubrögðum Alþýðusambandsins í síðustu samningum, þegar samið var eftir 10 mánuði um kjarabætur sem rétt náðu því að bæta kjaraskerðinguna á viðræðutímanum sjálfum.

Í eftirfarandi grein verður reynt að gera nokkra grein fyrir þeim straumum sem að baki liggja innan FBM.

innlent viðhorf

Aðdragandi málsins

Félag bókagerðarmanna var stofnað á hátíðafundi 2. nóvember sl., þótt ekki tæki það til starfa fyrr en um síðustu áramót. Við stofnun þess sameinuðust þrjú félög bókagerðarmanna eftir áralangar samningaviðræður: Hið íslenzka prentarafélag, Bókbindarafélag Íslands og Grafíska sveinafélagið.

Tvö hinna fyrrnefndu félaga voru aðilar að ASÍ en Grafíska sveinafélagið ekki. Það var því sameiginleg niðurstaða félaganna þriggja að úr því skyldi skera í almennri kosningu hvort nýja félagið skyldi sækja um aðild að ASÍ eða ekki. Þá var það einnig tilefni atkvæðagreiðslu um málið að lög ASÍ heimila ekki sjálfkrafa aðild nýrra félaga að sambandinu.

Gagnrýnin afstaða

Bókagerðarfélögin þrjú hafa um langa hríð haft afar gagnrýna afstöðu til vinnubragða æðstu forystu Alþýðusambandsins. Einkanlega hafa talsmenn prentarafélagsins talað gegn uppbyggingu samflotanna í samningagerð og barist fyrir nýjum aðferðum.

Skoðun prentara hefur í stuttu máli verið sú að sameiginleg kröfugerð og sameiginlegar aðgerðir ættu að einskorðast við mál sem beinlínis teljast sameiginleg, s.s. vísitölumál, lífeyrismál, kröfur á hendur ríkisvaldi o.þ.h. en allir samningar um laun og kjör einstakra stéttarfélaga skyldu vera í höndum þeirra sjálfra eða starfsgreinasambanda þeirra.

Það er skemmst frá því að segja að rödd prentara á þingum og ráðstefnum Alþýðusambandsins hefur að meira og minna leyti verið rödd hrópandans í eyðimörkinni.

Lærdómar

Það var ljóst fyrir atkvæðagreiðsluna um ASÍ-aðild að meirihluti virkra félagsmanna FBM voru fylgjandi aðild að sambandinu. Þá afstöðu byggðu menn einkum á nauðsyn þess að hið nýstofnaða bókagerðarmannafélag tæki ótvíræða afstöðu með verkalýðshreyfingunni sem slíkri, ynni innan hennar að breytingum og heilbrigðari starfsháttum en einangraði sig ekki.



Sameiginlegur fundur bókagerðarfélaganna þriggja í október sl. (Mynd Prentarinn)





Trúnaðarmannaráðsfundur í FBM í mars sl. þar sem niðurstöður allsherjaratkvæðagreiðslunnar um aðild félagsins að ASÍ voru ræddar. (Mynd Prentarinn)

Forráðamenn Alþýðusambandsins og stóru sambandanna innan þess, s.s. Verkamannasambandsins o.fl. hafa lagt allt kapp á að auka miðstjórnarvald sitt í samningagerð og allri starfsemi verkalýðshreyfingarinnar. Þeim hefur þóknast að fara sínu fram án tillits til þess hvað verkalýðshreyfingunni í heild hefur verið fyrir bestu og án tillits til skoðana og álits einstakra félaga innan sambandsins.

Innan Bókbindarafélagsins og Grafíska sveinafélagsins hefur einnig borið á svipuðum gagnrýnisröddum, þó ekki nándar nærri eins rökföstum og hjá prentarafélaginu fyrrverandi.

Þessi skoðun naut ekki stuðnings meginþorra félagsmanna, eins og fram hefur komið. Í umræðum sem fram hafa farið eftir atkvæðagreiðsluna virðist ljóst að félagar FBM hafi fyrst og fremst verið að mótmæla vinnubrögðum ASÍ-forystunnar (og þá um leið samskonar vinnubrögðum innan eigin stéttarfélags) ásamt þeim flokkspólitíska þræði sem bryddar allan stéttasamvinnuvefnað Alþýðusambandsins.

Ekkert lært

Þótt forsvarsmenn FBM hafi dregið þessa lærdóma af niðurstöðum atkvæðagreiðslunnar innan félagsins, verður ekki sama sagt um forráðamenn Alþýðusam-

Framhald á bls. 11

*Seðlabankinn:*

# Véfréttin hefur talað

framhald af síðu 4

geta þess að miklar erlendar skuldir stafa ekki hvað síst af rangri fjárfestingu, biluðum stórvirkjunum og orkusölu á tapverði til erlendrar stóriðju.

Meiri völd.

Hinn óflokkspólitíski yfirmaður Seðlabankans benti ráðamönnum kurteislega á óskalausnir.
Aukið svigrúm Seðlabankans til aðhalds í peningamálum sem þýðir meira eftirlit, meiri miðstýringu og meira sérfræðingavald.
Opnara hagkerfi sem þýðir meiri viðmiðun við gróða og aukið vald til atvinnurekenda.
Sveigjanlegri gengisskráningu sem þýðir meiri undanlátsemi við kröfur útflytjenda.
Meira aðhald í kjaramálum sem þýðir frekari skerðingu kaupmáttar og samningsréttar.

Hér er ekki talað fyrir hagsmunum launafólks og ekki var minnst á innlenda eldsneytisframleiðslu eða dreifðari fiskmarkaði, en hvorttveggja gæti létt á innfluttri verðbólgu.

Þarna sitja þeir Seðlabankastjórnendur. Hvar skyldi nú þjónusta Guðmundar Hjartarsonar og Inga R. Helgasonar, Alþýðubandalagsmanna, við umbjóðendur sína koma fram?

Til hvers?

Til hvers að grafa í ræðu Jóhannesar Norðdals?
Vegna þess að baráttusinnar og kommúnistar verða að geta mætt auðvaldinu á heimavelli og sýnt fram á yfirburði sósíalismans yfir ónýtt auðskipulagið. Við háborð Jóhannesar sitja nokkrir yfirlýstir "fulltrúar fólksins". Ekki ónáða þeir höfðingjana og bera ábyrgð á ráðabruggi þeirra. Látum þá eiga sig og tökum saman höndum við að búa til valkost.

# Umbrotin í Póllandi

Nú um stund hafa engin stórátök verið í Póllandi, eða síðan verkföll urðu vegna atburðanna í Bydgoszcz, þar sem lögreglan réðst af hörku á fulltrúa bænda, sem fóru fram á viðurkenningu á sjálfstæðum stéttarsamtökum. Ekki hefur komið til verkfalla vegna yfirlýsingar Jaruselskis forsætisráðherra, um að verkföll skyldu bönnuð í tvo mánuði. Samstaða hefur þó mótmælt þessarri lagasetningu og lýst hana brot gegn fyrri samþykktum. Ekki verður þó vart við annað en stjórnin ætli sér að standa við þessa lagasetningu. Þarna er því um ákveðið þrátefli að ræða.

## Gdansk-samkomulag.

Samstaða ætlar sér að ná fram ákvæðum samkomulagsins í Gdansk frá 31.ágúst á seinasta ári og koma þar með í veg fyrir að sagan endurtaki sig frá fyrri verkamannauppreisnum í Póllandi, þar sem loforð voru gefin, skipt um forystumenn, en allt síðan svikið. Deiluaðilar eiga þó báðir við ákveðna erfiðleika að etja. Umrætt samkomulag inniheldur geysilega mikilvæg réttindi. Sumt hefur náðst fram, annað ekki og sumu reyna stjórnvöld að hnekkja. Mikilvægustu atriðin eru: Viðurkenning verkfallsréttar, frelsi til handa pólitískum föngum, takmörkun ritskoðunar, leyfi til að útvarpa guðsþjónustum, ákvörðuð lágmarkslaun og launahækkanir, vinnutími styttur, minni verðhækkanir afnám fríðinda hers og lögreglu, o.fl.

## Nokkur vandamál.

Helstu vandamálin, sem við er að stríða, eru mikil efnahagskreppa og ógnun frá Sovétríkjunum. Harðlínumenn í pólska flokknum hafa fordæmt allar tilslakanir við Samstöðu og sakað hana um að eiga stóra sök á vandamálunum. Hófsamir, sem virðast hafa haft yfirhöndina, a.m.k. hingað til, hafa viljað semja og slaka til, og koma þar með í veg fyrir stórfelld verkföll, sem gætu leitt til afskipta Sovét. Innan Samstöðu hafa einnig verið deilur um hversu hart skuli ganga fram. Stefna Walesa og annarra hófsamra forystumanna, virðist vera að forðast verkföll í lengstu lög og gefa stjórnvöldum ákveðið svigrúm. Með því vilja þeir leggja fram sinn skerf til lausnar efnahagsvandanum. Ætli það sé ekki einnig flestum ljóst að stjórnvöld geta ekki, a.m.k. í einu vetfangi gengið mjög langt í frjálsræðisátt og viðurkennt til fullnustu öll þau mannréttindi sem pólsk alþýða á vissulega rétt á. Hindrunin er þar fyrst og fremst Sovétríkin. Fordæmi Samstöðu er þegar orðið nógu slæmt og Sovétríkin óttast að svipaðar hreyfingar muni fylgja í kjölfarið í öðrum A-Evrópulöndum. Raunar hefur þegar vottað fyrir því, bæði í Ungverjalandi og A-Þýskalandi.

erlent viðhorf



## Innrásarhætta?

Er mikil hætta á sovéskri innrás? Ég held að fáir efist um að Bjössa frænda skorti ekki viljann. Aðstæður eru hins vegar slæmar fyrir hann. Öllum er enn í fersku minni innrásin í Tékkó og nú eru Sovétríkin með 100 þús. manna lið í Afganistan. Sú innrás hafði í för með sér umfangsmiklar fordæmingar á Sovétríkjunum, sambúð þeirra versnaði við mörg ríki, raunverulegt eðli þeirra varð ljósara. Í kjölfarið fylgdu ákveðnar efnahagsþvinganir, nokkuð sem sovéskur efnahagur þolir illa. Einkum koma takmarkanir á innflutningi háþróaðs tæknibúnaðar sér illa fyrir sovétmenn. Vestræn ríki hafa lýst yfir því að hörðustu efnahagsaðgerðum verði beitt, komi til innrásar í Póllandi. Það er trúlega einkum þetta, sem heldur aftur af Bjössa frænda, en einnig þó það að búast má við að andstaða pólsks almennings yrði geysi hörð. Líkur eru jafnvel taldar á því að hluti pólska hersins snerist gegn innrás Varsjárbandalagsríkjanna.

Þrátt fyrir augljós vandkvæði fyrir Sovétmenn, munu þeir án efa gera innrás í Pólland, ef og þegar þeir telja frjálsræðishreyfinguna ganga of langt, sérstaklega ef þessi hreyfing færi að berast í einhverjum mæli til annarra A-Evrópuríkja. Það má ljóst vera, a.m.k. í næstu framtíð, að Brésnef sleppir ekki klónum af Pólverjum og við þær aðstæður verður Samstaða að miða baráttuaðferðir sínar.

S.

# Margir flýja sovéskan „sósíalisma“




Starfsmenn flóttamannahjálpar Sameinuðu þjóðanna telja, að nú séu u.þ.b. 10 milljónir flóttamanna í heiminum. Það er athyglisvert, hversu stór hluti af þessu bágstadda fólki er á flótta frá löndum, þar sem Sovétríkin eru í óða önn að koma á "sósíalisma".

1,7 milljón manns er flúin frá Afganistan til Pakistans (9% íbúanna) og dálítið færri eru flúnir frá Eþíópíu og Eritreu til Sómalíu (5% íbúa). Ennþá flýr bátfólk frá Víetnam og enn hafast fjölmargir Kampútseumenn við í búðum í Thailandi.

Enn fyrirfinnst fólk hér á landi, sem trúir því, að Sovétríkin séu "friðelskandi þjóð í sjálfsvörn", sem eigi þá ósk eina að lifa í friði innan eigin landamæra. Mikil er trú þeirra.

Þ.Ö.A.

# 350 þús. fallnir – stuðning vantar

Innrás Sovétríkjanna í Afganistan í des. 1979 var tímanna tákn. Hún sýndi svo að ekki var um villst að Sovétríkin eru árásargjarnt risaveldi.

Fjölmargir sem enn sáu ástæðu til að verja Sovétríkin og taka á einhvern hátt undir friðargasprið frá Kreml snéru blaðinu við og létu lærdóm þann sem draga má af innrásinni sér að kenningu verða. Þó eru þeir enn nokkrir sem ganga fram fyrir skjöldu og verja heimsvaldastefnu Sovétríkjanna. Þeir láta hjá líða að fordæma innrásina í Afganistan og þegja þunnu hljóði um fólsku Sovétríkjanna heimafyrir og utanlands Fyrir þeim eru Sovétríkin enn verkalýðsríki.

Nú hafa nær 350 þúsund afganir fallið í stríðinu gegn innrásarher Sovétríkjanna. Sovétríkin þurfa á miklu liði að halda í Afganistan vegna þess að enginn innlendur herstyrkur er til staðar og fylgir þeim. Andstaðan gegn rússum er fyrst nú á síðustu mánuðum að samræmast. Í fyrstu byggðist hún á mörgum mismunandi skæruliða-hreyfingum, sem lítil eða engin tengsl höfðu sín á milli. Æ fleiri þessara hreyfinga hafa nú tekið upp samskipti og samræmt aðgerðir sínar.

Því er haldið fram af þeim sem ekki vilja fordæma innrásina í Afganistan að andstöðuhreyfingarnar gegn rússum séu hægriöfl, – strangmúhameðstrúar, eða hreyfingar sem stjórnað er frá hægriöflum í Pakistan. Það væri óeðlilegt að ætla að ekki hafi verið til hægri öfl í Afganistan fyrir innrás og að þessi öfl settu sig í andstöðu gegn innrás frá Sovétríkjunum. En að slá því föstu að andstaðan sé svo mikið til hægri að ekki sé hægt að fordæma innrás Sovétríkjanna þess vegna er ömurleg pólitík. Í fyrsta lagi er fátt eins grimmdarlegt og hægriöfgafullt og innrás og hernám heils lands og heillrar þjóðar. Í öðru lagi hljóta afganir að vera stórskrítin þjóð ef hún lætur öfl sem eru meira til hægri en innrásarliðið stjórna sér, eða að hún tekur sömu afstöðu og þau. Það gerir einmitt yfirgnæfandi meirihluti afgönsku þjóðarinnar, hann er andvígur innrásinni og tekur beinan eða óbeinan þátt í andstöðunni.

Væri ekki nær að allir þeir sem vilja veg frelsis og sjálfræðis tækju höndum saman um að byggja upp alþjóðlega hreyfingu gegn innrás Sovétríkjanna. Til þess þurfa ekki allir að vera sammála um allt milli himins og jarðar, en samt sammála um að á meðan erlendur her situr í Afganistan og kæfir niður allt frumkvæði afgana sjálfra til að leysa mál sín er allt tal um hægri og vinstri í Afganistan út í hött. Afganska þjóðin á að fá frið til að ráða málum sínum sjálf. Við styðjum hana í því með því að fordæma innrásina.

Æ.



Ný og óhugnanleg drápsaðferð var nýlega tekin upp á vegum herforingjastjórnarinnar í El Salvador. Sérstökum vökva, í ætt við napalm, er sprautað undir húð fórnarlambsins. Að fáeinum klukkustundum liðnum eru húð og vöðvar horfin og kvalirnar ólýsanlegar. Mörg hinna myrtu eru börn, því stjórnvöld hafa hafið útrýmingarherferð á hendur börnum að 12–14 ára aldri, sem eiga foreldra er taka þátt í baráttu gegn stjórninni. "Það er beint samband milli hryðjuverka þessara og aukins stuðnings Reagan-stjórnarinnar við herforingjastjórnina", segir Marinella Garcia Villas, formaður Mannréttindanefndar El Salvador, sem stödd var í Osló, en á myndunum sjást nokkur fórnarlamba "sýrumorðanna". Stúlkan fremst varð 14 ára.

Kommúnistasamtökin fordæma stjórnvöld í El Salvador og Bandaríkjunum og styðja frelsisbaráttuna í El Salvador.

# Jafnrétti — forréttindi

Jóhanna Sigurðardóttir hefur lagt fram á Alþingi frumvarp um tímabundin forréttindi kvenna. Í því felst að ef karlmaður og kvennmaður sækja um sömu stöðuna, þar sem meira er um karlmenn, þá skuli heldur velja konuna, uppfylli hún skilyrði til starfans. Guðrún Helgadóttir bætir svo um betur og leggur til að ef um sé að ræða störf sem konur hafa frekar valist til, skuli veita karlmönnum forgang.



### Hvaða konum kemur þetta helst til góða?

Að þetta sé flestum, eða jafnvel öllum konum til góða, er hreinasta fjarstæða. Sá hópur sem kemur til með að geta notið góðs af þessu er mjög fámennur. Er þar fyrst og fremst um að ræða konur sem lokið hafa háskólamenntun í greinum þar sem karlar eru fjölmennari. Í mörgum þeim greinum hefur þó ekki borið á neinu kynjamisrétti í stöðuveitingum og því hæpið að fara nú að veita konum þar einhvern forgang.
En hvernig er þá með ýmsa aðra hópa kvenna?

### Konur með framhaldsmenntun í láglaunahópum.

Hvað bætir þetta stöðu kvenna í svonefndum "kvennastörfum"?
Helsta misréttið á vinnumarkaðinum felst í launamismun eftir starfsgreinum. Sem dæmi má nefna sjúkraliða, fóstrur, þroskaþjálfa og ljósmæður.
Í þessum greinum er yfirleitt krafist stúdentsprófs og síðan 3 ára náms, en launaflokkar eru mjög lágir. Þar til fyrir skömmu voru meinatæknar 2 launaflokkum fyrir neðan aðra hópa með "tækna"nám, en eftir næturlangt verkfall var því breytt. Hjúkrunarkonur með BS-próf eru líka lægra launaðar en aðrir hópar með sambærilega menntun.
Þessu misrétti verður á engan hátt breytt með frumvarpi Jóhönnu eða viðbæti Guðrúnar.

### Hvað bætir þetta stöðu verkakvenna?

Sem annars staðar bætir þetta ekkert stöðu þeirra sem vinna svokölluð "kvennastörf". Um það að komast í karlastörf, er það að segja, að þar er ekki eftir miklum launamun að sækjast í formi taxtahækkana, því helsti launamunurinn felst í meiri yfirvinnu karla og yfirborgunum til þeirra.

### Hvenær skal kjósa konu, konunnar vegna?

Í mörgum tilvikum er engin þörf á að gera upp á milli karla og kvenna, þegar valið er í störf. En á mörgum sviðum er vissulega þörf að gæta þess að bæði kynin eigi þar sína fulltrúa.

Tvö dæmi skulu nefnd:
Í verkalýðshreyfingunni hafa konur sérstöðu sem birtist í starfsgreinum, launum, menntun og vinnuaðstöðu, m.a. vegna stöðu sinnar á heimilinu. Til að berjast fyrir bættri stöðu kvenna sérstaklega, er því þörf á fleiri konum í trúnaðarstöðum innan verkalýðshreyfingarinnar.
Mikilvægt er að uppeldinu sé sinnt af báðum kynjum jafnt. Því er slæm sú þróun að kennslu í leikskólum og yngri bekkjum grunnskóla sé nú nær eingöngu sinnt af konum.

Rétt er að kjósa konu frekar en karl, þegar gæta þarf hagsmuna kvenna sem hóps. Lagaboð um að óháð þessu skuli veita konum forréttindi, er hins vegar jafnréttisbaráttunni til tjóns.

Soffía.

## ... eru áfellisdómur yfir ASÍ

framhald af síðu 9

bandsins. Í því heygarðshorni situr enn við það sama. Lýst var yfir harmi og kveðið upp úr með það að úrslitin sköðuðu FBM meir en ASÍ.
Engum í nýkjörinni miðstjórn ASÍ hefur dottið í hug (enn sem komið er a.m.k.) að taka starfsaðferðir sínar til endurskoðunar. Þó mega þeir miðstjórnarmenn vel vita að úrslit atkvæðagreiðslunnar í FBM endurspeglar að öllum líkindum almennt álit félagsmanna flestra stéttarfélaga þessa lands.
Alger hundsun stýrimanna Alþýðusambandsins á skoðun um almennra félagsmanna sambandsins sést best á þeirri ákvörðun formannaráðstefnu nýverið (svokallaðrar kjaramálaráðstefnu) að vísa kröfugerð vegna komandi kjarasamninga í 50 manna sjálfskipaða nefnd. Það hvarflar ekki að þeim herrum að láta ræða kröfugerðina og vinnubrögðin í stéttarfélögunum sjálfum.

### Ekki nóg

Það verður þó að segja að ASÍ-forystan getur verið nokkuð örugg um sig í bráð. Ekki er líklegt að fleiri stéttarfélög fylgi að svo komnu máli í fótspor FBM.
Það stafar þó ekki af viljaleysi félagsmanna í hinum ýmsu félögum. Þau 65% atkvæða innan FBM gegn aðild hefðu einfaldlega ekki nægt til að segja félagið úr ASÍ hefði það verið þar fyrir innanborðs. Til þess þarf nefnilega 75% atkvæða á aðalfundi og önnur 75% í almennri atkvæðagreiðslu. Það er því kannske von að Ásmundur og félagar séu kokhraustir.

### Kallar á þrotlaust starf

Úrslitin kalla á þrotlaust og ósérhlífið starf stéttarbaráttumanna innan FBM. Þeir þurfa að fylgja eftir kröfum almennra félagsmanna um ný vinnubrögð í samningaog kröfugerð. Þeir þurfa að leitast við að sameina félagsmenn þvert á flokksbönd um baráttustefnu. Og ekki síst þurfa þeir að berjast af alefli gegn þeirri einangrunarstefnu og óstéttvísi sem þrátt fyrir allt felast í niðurstöðum allsherjaratkvæðagreiðslunnar. Það verður að gera lýðum ljóst að eitt er samstaða og eining verkafólks og annað, allt annað eru starfshættir og hugmyndafræði stéttfriðarforingjanna í Alþýðusambandinu.

-óhs.

# Joe Walsh: „Ég ætla ekki að sitja aðgerðalaus"

Eagles heitir ein vinsælasta hljómsveit Bandaríkjanna. Samt eru fjölmiðlaviðtöl við liðsmenn Eagles næsta fágæt. Ástæðan leynist kannski í úrdrættinum, sem fer hér á eftir, úr viðtali er breska músíkblaðið NME átti við Joe Walsh gítarleikara og söngvara Eagles. Þessi örstutti úrdráttur varpar e.t.v. líka ljósi á það hvers vegna sumir kanar verða vinstri sinnaðir þrátt fyrir þá einhliða hægri mötun sem bandarískir fjölmiðlar hafa í frammi.

tónlist




"Ég sá tvo nána vini mína skotna niður," segir Joe Walsh þegar vaxandi róttækni Eagles ber á góma. Þessir vinir Walsh voru myrtir, ásamt fleirum, í Kent State háskólanum 1970. Þar höfðu nemendur gerst svo djarfir að efast upphátt um réttmæti fjöldamorða kanans á bændaþjóðum Indókína. Þeir héldur því sem sagt fram að morðsveitir kanans myndu gera Bandaríkjunum meira gagn ef þær létu þjóðir Indókína í friði.
"Við vorum ekki með samúð í garð Kampútseu í huga," útskýrir Walsh. "Í raun var enginn okkar svo mjög pólitískur. En þjóðvarðliðið hélt greinilega annað. Það trylltist gjörsamlega. Undirherforinginn tók skoðanir okkar sem árás á sig og öskraði: "Við látum ekki svívirða okkur svona." Sumir þjóðvarðliðarnir neituðu að skjóta á okkur".
"Í dag virðast allir vera ánægðir yfir að þessi atburður er gleymdur og grafinn. Yfirvaldið gróf hann. Og allt er samt sem áður. Það angrar mig einmitt mest. Kannski skrifa ég bók um atburðinn. Og þá kemur FBI (innanríkislögreglan), tekur mig fastan og ekkert spyrst til mín framar. Því ég veit nákvæmlega hvað gerðist og ætla ekki að þegja um það. Ég vil vekja fólk af þessum að-látahverjum-degi-nægja-sínar-þjáningar hugsunarhætti. En ég er ekki bjartsýnn á framtíðina. Núna á t.d. að fylla Bandaríkin af kjarnorkuverum. Almenningur fær engu um það ráðið."
"Og ef svo heldur áfram sem horfir fáum við McCartyismann í öllu sínu veldi yfir okkur aftur. Ég neita að stija aðgerðarlaus undir þessu. Í Ameríku erum við í Eagles orðnir mjög virkir í neðanjarðarpólitíkinni. Við ætlum einnig að glæða söngva okkar meiri baráttuanda. Ég held að við séum komnir upp á það plan að við getum sent frá okkur áróðurslög sem skila árangri. Andskotinn hafi það, takist okkur að opna augu, þó ekki væri nema fimm manns til viðbótar þá höfum við lagt fram nokkurn skerf til baráttunnar.".
Við þessa frásögn Joe Walsh er aðeins einu að bæta: Atburðurinn í Kent State er ekkert einsdæmi í viðbrögðum yfirvalda við mótmælum í Bandaríkjunum. Langt frá því. Hinsvegar hafa vestrænar fréttastofur ekki séð ástæðu til að miðla fréttum af svona atburðum. Svona fréttir myndu nefnilega rugla þá mynd sem við eigum að hafa af Bandaríkjunum.

-jGuð.

Lausasala: kr. 4,00
Ársáskrift: kr. 60,00
Ársstuðningsáskr.: kr. 120,00
Ársáskr. til útl.: kr. 120,00

Verkalýðsblaðið

4.tbl. 10.árg. 27.4.1981

# Ægivald innrætingariðnaðarins

Líklega hefur hugmyndafræðileg varnarbarátta átt hvað ríkastan þátt í að verja auðvaldskerfið falli. Þrátt fyrir vaxandi misrétti, atvinnuleysi og verðbólgu og yfirvofandi stríðshættu er flest fólk upptekið við að rækta garðinn sinn eins og ekkert hafi í skorist. Hugmyndir fólks virðast hafa mótast kerfinu í vil. Hvernig hefur það gerst?

Splunkuný frá USA
GRÆJURNAR
fyrir skóla lífsins
Aðeins fyrsta flokks framleiðsla
Gæðin leyna sér ekki
alveg dásam-le-e-e-g
fyrir alla
FJÖLGUN OG STÓRHÆKKUN
styttri afgreiðslutími – lægra verð
á ótrúlega lágu verði
ódýrt og einfalt
Við teljum
að notaðir VOLVO bílar séu betri en nýir bílar af ódýrari gerðum.
NÝTT
HVER BÝÐUR BETUR
KENWOOD SIGMA
er algjör stökkbreyting í gerð
Vertu með til vinnings
Verð aðeins kr. 1.795.00.
REYFARAKAUP!
GEFUR RÉTTA GRIPIÐ
Gæði á góðu verði.

Hugsanlega má skýra það með því að rannsaka tengsl auðvaldshugmynda og fjármagns. Þar eru auglýsingar mér efstar í huga. Ég hef ekki handbærar tölur yfir hversu stórum hluta þjóðarframleiðslunnar er eytt í auglýsingar í blöðum, ríkisfjölmiðlum og víðar. Mér kæmi ekki á óvart að hér sé um stærri upphæð að ræða en þá er varið er til fræðslumála í landinu (vildi gjarna fá það upplýst, ef einhver gæti komist að því).

Að vissu marki eru auglýsingar nauðsynleg og æskileg upplýsingamiðlun. Fólk þarf t.d. að vita hvar hina og þessa vöru og þjónustu er að fá, en þeirri þörf mætti fullnægja á mun umfangsminni og fábreyttari auglýsingum en víðast tíðkast. Þar duga t.d. vel skipulagðir smáauglýsingadálkar. Og auðvitað þarf að gera þá kröfu, að upplýsingarnar séu sannar.

Auglýsingar eru í mörgum tilvikum áhrifamikill og út hugsaður áróður. Sérstaklega á það við um sjónvarpið. Þar er miklu kostað til hverrar mínútu og ekki vönduð meðulin til að fá fólk til að fara að óskum auglýsandans. Órökstuddum fullyrðingum er laumað að fólki,innpökkuðum í fallegar umbúðir og endurtekið nógu oft að hætti Hitlers og Göbbels.

En er það nú ekki alveg meinlaus áróður að hvetja fólk til að drekka Kók, borða ost eða ferðast til sólarlanda o.s.frv. Er ekki miklu skaðlegra þegar Helgi Geirsson lofar Hitler hástöfum í kjallara Dagblaðsins eða Svavar Gestsson ver kjaraskerðingar ríkisstjórnarinnar í Þjóðviljanum? Eða hringborðsumræður pótindáta stjórnmálaflokkanna í sjónvarpinu?

Jú, satt er það, a.m.k. þegar litið er á hvern hlut út af fyrir sig. En auglýsingar hafa í heild sinni ákveðinn boðskap, sem ekki er víst að allir komi auga á. Sá boðskapur snertir kjarna auðhyggjunnar.

Að mínum dómi er kjarni auðhyggjunnar sá, að hver reyni að gera sem best við sig og sína og <u>þannig sé heildinni best borgið.</u> Til að auðvaldskerfið virki þarf fólk að eyða allri huglægri og líkamlegri orku sinni í það að gera vel við <u>sig.</u> Það gildir jafnt um hátt setta sem lágt setta, en hinar skaðvænlegu afleiðingar eru mest áberandi þegar hátt settir valdamenn í ríki og fyrirtækjum eiga í hlut. Kerfinu er það lífsnauðsynlegt að almenningur haldi sig sem mest innan eigin túngirðingar og standi sig sem <u>vinnuafl</u> og <u>kaupendur</u> (með vaxandi vélvæðingu og "offramleiðslukreppu" eykst mikilvægi hins síðarnefnda). Þegnar auðvaldsþjóðfélagsins eiga að vera þröngsýnir og sjálfmiðaðir. Aðeins fáir mega sjá út fyrir takmörk kerfisins. Það er ekki út í bláinn að amast við lífsgæðakapphlaupi því, sem margt fólk leiðist út í, eins og margir vinstrimenn hafa gert (sbr. brag Arnar Bjarnasonar um vísitölufjölskylduna). Alþýðan er þjónn framleiðslunnar, en ekki öfugt. Það er meinið.

Undirtónn auglýsinganna er: Þjónaðu sjálfum þér (ekki fólkinu), hugsaðu lítið, einfalt og þröngt (ekki skilja lögmál þjóðfélagsins), notaðu tímann í brauðstrit til að geta keypt sem mest, til að geta keypt þér hamingju. Hlýddu skipunum (ekki hugsa sjálfstætt og breyta eftir því) o.s.frv. "Siðfágun" sú, sem SÍA (samband ísl. auglýsingastofa) telur sig berjast fyrir (sbr. neytendasíðu DB 2o/1 1981), breytir í engu þeim undirtóni. Hann hljómar síst minna, þó svo að dregið sé úr grófustu lyginni og frekjunni. Markmið siðfágunarinnar er að gera auglýsingarnar enn áhrifameiri, enda vill sá sem borgar fá eitthvað fyrir sinn snúð. Takmark hans er nefnilega hámarksgróði.

Fólk, sem dvalið hefur í Bandaríkjunum, hefur lýst hinu gífurlega fargani auglýsinga þar í landi. Sjónvarpsefni og útvarpsdagskrá er rofið á fárra mínúta fresti. Það er ómögulegt að sleppa. Fólk þar vestra ku bera þess merki. Ég veit um íslenska unglinga, sem voru mjög hneyksluð á jafnöldrum sínum þar í landi fyrir það hvað þeir vissu lítið í sinn haus af því sem hér flokkast undir almenna skynsemi, en voru aftur á móti alveg klár á því hvaða tegund af varalit og sápu það ætti að nota.

Guð hjálpi okkur, ef "frjálsu " útvarpi eða sjónvarpi verður komið hér á. Mætti ég þá heldur biðja um algjört bann við auglýsingum í ríkisfjölmiðlunum, eins og tíðkast hefur í Noregi og Svíþjóð.

Nú kann einhver að spyrja: Ef auglýsingar eru svo áhrifaríkur áróður, hversvegna fara kommarnir og aðrir andstæðingar auðvaldsskipulagsins þá ekki bara að auglýsa, svo alþýðan tileinki sér hugmyndafræði félagshyggjunnar og geri í kjölfar þess uppreisn gegn kúgun og ..?

Því er fljótsvarað. Það yrði vægast sagt ójafn leikur. Fjármagn til auglýsinga er tekið beint af arði framleiðslunnar (nær skattfrjálst), reiknað inn í vöruverð og <u>greitt af kaupendum að þeim forspurðum</u>. Við rótæklingarnir yrðum hins vegar að klípa af kaupinu okkar, margsköttuðu og naumt skömmtuðu. Okkar auglýsingar yrðu líklega stimplaðar sem pólitík og misstu við það áhrifamátt. Fólk gerir sér almennt ekki grein fyrir, að venjulegar auglýsingar eru í raun pólitískur áróður og einmitt þess vegna hrífur áróðurinn. Það er læðst aftan að fólkinu sofandi.

Það skiptir ekki síður máli, að <u>með auglýsingatekjum er ýmiss annar áróður fjármagnaður að verulegu leiti.</u> Dagblöð og tímarit hafa flest megintekjur sínar af auglýsingum. Þau verða þá að sjálfsögðu að gæta þess að styggja ekki þá sem auglýsa. Eigendur og forráðamenn fjármagns fá þannig mikið vald til ritskoðunar. Orðrómur hefur verið á kreiki um að Þjóðviljinn sneiði hjá gagnrýni og afhjúpun voldugra fyrirtækja til að missa ekki auglýsingatekjur, sem blaðið stendur og og fellur með. Og þannig er það víðar.

Ekki má skilja mig svo, að ég álíti auglýsingar eina áróðurinn, sem slær hring um auðvaldskerfið og ver það falli. Annað efni blaða, tímarita og ríkisfjölmiðla vegur einnig þungt og er að sumu leyti áhrifameira. En auglýsendur hafa einnig vald yfir því efni, eins og bent var á.

Sumir alþýðumenn, verkamenn og kommúnistar klípa af frístundum sínum og skrifa góðar greinar í blöð eða gefa út bækur. Verkalýðsblaðið er t.d. unnið í sjálfboðavinnu af miklu harðfylgi. En það eru takmörk fyrir því hversu mikið hægt er að framleiða þannig. Það er ólíkt hentugra að geta framleitt hann í vinnunni, eins og margir háttsettir í kerfinu gera (þurfa jafnvel ekki að stelast til þess). Atvinnublaðamenn framleiða mikið magn undir óbeinni og jafnvel beinni ritskoðun ritstjórnar og auglýsenda.

Áhrif áróðurs fara mun meira eftir gæðum en magni (guði sé lof), en magnið skiptir þó talsverðu máli. Hugmyndafræði auðhyggjunnar hefur gífurlega yfirburði hvað magn varðar.

Þó svo innihaldið sé minna háð fjármagni en umbúðirnar, þá krefst gott innihald menntunar, reynslu og <u>tíma</u> hugverkamannsins. Hann þarf að hafa ofan í sig og á á meðan. Hann þarf einnig á frístundum að halda til að ala upp börnin sín, enda er það mikilvægt pólitískt verkefni.

Heilaþvottur fjölmiðla austan tjalds hefur stundum verið til umræðu hér á landi og það ekki að óþörfu. En hvernig er ástatt með okkur? Erum við ekki meira og minna heilaþvegin hvern einasta dag? Hugleiðum það.

ÞÖÁ.

# Til áskr. utan Rvk.

Áskrifendur utan R.víkur munu fljótlega fá sent póstávísunareyðublað, útfyllt að mestu. Þar er verið að innheimta áskriftargjöld, ýmist fyrir 198o eða 1981. Það er mjög brýnt að menn bregðist vel við, jafnvægið er hverfullt í fjármálum Verkalýðsblaðsins og rekstur þess gengur ekki vel. Hafi menn aukagetu, er styrktarframlag vel þegið svo ekki sé nú talað um efni í blaðið af vinnustöðum, úr plássum eða innskot í umræður.

Menn eru minntir á að tilkynna breytt póstfang og eins á að hætta verður að senda blaðið til þeirra ef áskriftargjöldin verða ekki greidd á næstunni. Loks viljum við hvetja áskrifendur utan R.vík að afla blaðinu nýrra áskrifenda – það er besti stuðningurinn.

-ritnefnd.